# J. H. Campes
# Sálar-Frædi,
ætlud
## námfúsum Unglingum,
einkum
## Kennslu Børnum.

Fritt útløgd
af
## Bjarna Arngrímssyni,
Sóknar-presti til Mela og Leirár
í Borgarfjardar-sýslu.

---

Selst almennt innbundin, 27 skild.

---

Leirárgørdum vid Leirá, 1800.
Prentud á kostnad Islands almennu Upp-frædingar Stiptunar,
af Factóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord

Föðurlandsins
verðugu
Sonum,
Lærdóms og Dygða
elskuðu og heiðruðu
Vinum,
Forstjórum
Íslands almennu
Uppfræðingar
Stiptunar,

er

Campes

íslendskada

# Sálar-Frædi

tileinkud

audmjúkast

af

Þýdandanum.



## Til Lesarans.

Þegar eg í fyrsta sinni, fyrir nockrum árum lidnum, sjed hafdi og med athygli yfirlesid Campes kleine Seelenlehre für Kinder, eptir Staals' dønsku útleggíngu, fañst mér svo mikid um Bæklíngsins innvortis verd, og útvortis snyldar-logun til uppfrædíngar únglíngum, ad eg þegar strax tók



mér fyrir hendur í frí-tímum mín-
um, ad þýda hann á vort módur-
mál, þó einúngis í því skini, ad med-
deila mínum elskudu þá verandi
Kénnislu-børnum þeirri ánægju, er
eg siálfur fann til undir hans yfir-
lestri og þýdíngu; líka og til ad vek-
ja þeirra sálar-krapta til íhugunar
þess efnis (eg meina, skynsamrar
siálfs-þeckíngar), án hvørs þecking-
ar eg hygg engin veruleg innvortis
fullkomnun sé møguleg.

Verkanir þær, er eg med gledi
sá, ad Ritlíngsins yfirlestur, jafn-
framt munnlegri vegleidslu, hafdi
hjá mínum fáu úngu vinum, vakti
þá laungun í brjósti mínu: ad hann
med

med tídinni verda mætti fleirum af mínum námfúsu uppvaxandi lønd-
um til vidlíkra nota, og í gladri vón, ad einhvørn tíma mundu hentug
tækifæri frambjóda sig, til ad uppfylla þessa laungun mína, ásetti eg
mér á ný, ad umbæta ena fyrstu þýd-íngar tilraun, og lagdi þann ásetníng
undir skynsamra vina og góð-kunnugra lærdóms elskara atqvædi, sem
þá ecki einúngis áfýstu mig hins sama, heldur og í mørgu falli studdu
mig til hans framqvæmdar. Þessa nefni eg hellst: minn ógleymanlega
velgjørda fødur, lærdóms og dygda elskara, Stipt-prófastinn Hra.
Markús Magnússon, hinn margfróda menta-vin, Skólahald-



ara Hra. Þorvald Bødvarsson og Handlæknir Hra. Svein Pálsson, hværra adstod og vegleidslu í søgdu efni, eg med opinberu þackläti vidurkénni; og þannig undirkomin er sú þýdíngar tilraun, af Campes Sálar-Frædi í fyrstu, sem eg eptir enn þá ítrekada yfirskodun, lagfæríngu og um-mindun voga ad leggja fram fyrir alþýdu augu og álit.

Fulltrúa er eg um, ad varla muni nockurr sá lesari blada þessara, sem þeckir hve mikid vandhæfi er á þýdíngu þvílíkra heims-spekilegra vísinda á vora túngu, sem Sálarfrædin er, leggja ofhardann dóm á ófull-

ófullkomlegleika þá, er eg geng vakandi ad, ad enn þá muni loda vid þetta mitt litla, eins og hvört annad mannlegt verk, einkum þegar adgjætt er, ad svo fátt sem eckért þecki eg skrifad eda útkomid á vora túngu í Sálar-frædis vísindum, sem eg hefdi gétad studt mig vid í því, ad géfa vissum atridis ordum, er fyrirkomu, þeirra einskordudu merkíngu, þegar eg undanskil Lögmanns Hra. B. Gröndals Tilraun um Gáfna próf, sem finnst í ens konúnglega íslendska Lærdóms-lista Félags Rita 9da Bindini, til hvörs eg einnig tídum rennt hefi adgjætnu auga.



Þar enginn vegur var til, ad kopar-toblur þær, sem fylgja Adal-ritinu, og í hvörju samtali er þar vísad til, gætu fylgt þessari íslendsku þýdíngu, hefi eg rádist í ad snúa þeim tilvísunum í dæmi-sögur, lagadar eptir háttsemi og ástandi lands og sida hér, og því tídum vikid í ordalagi og atvikum frá Adal-ritinu, en þó hvörvetna kostad kapps um, ad halda þannig bil beggja þýdíngar stefnu minni, milli ánaudugrar og of-frjálsrar útleggíngar, ad sérhvörr skynjandi mætti hér aptur finna og þeckja Rithofundsins anda, íklæddann íslendskri mind og búníngi; þessi máti hugda eg væri brúkanlegastur trú-

trúum útleggjara, samqvæmastur Ritsins tilætlun, og best fallinn til ad gjøra þad sem skiljanlegast þeim, er þyggja egu og færa sér til nytsemdar.

Ad lyktum tel eg mig hamíngjusælann, ef þýdíngar tilraun þessi, samqvæmt lofsverdum tilgángi hinnar almennu Islands Uppfrædíngar Stiptunar, gjæti ordid medal til, ad leida eina edur adra únga sálu til þeckíngar egin edlis, gáfna og verdugleika, og fyrir hana til skynsamlegrar brúkunar hinna sømu, samqvæmt Guds ordi og manneskjunnar tímanlegu og eilífu áqvordun; Þad er mín tilætlan



án og mín ósk, sem sú stutta þó frœdandi reynsla, er eg nád hefi í mínum litla erfidis reit í Guds kirkju, géfur mér einhvørja glada von um, ad í framtídinni uppfyllast muni.

Melum í Borgarfirdi,
þann 21ta Februarí 1800.

Þýdandinn.

# Innihald Sálar-Frædinnar.

## Fyrsta Samtal.



## Annad Samtal.







## Þridja Samtal.







## Fiórda Samtal.



## Fimta Samtal.

Bls.

## Sjøtta Samtal.



## Sjøunda Samtal.



For-






## Attunda Samtal.



## Níunda Samtal.



edur:





## Tíunda Samtal.



## Ellefta Samtal.







## Tólfta Samtal.



## Þrettánda Samtal.





## Fjórtánda Samtal.



---

## Hellstu Prentvillur:

Pag. 19 lín. 6 fernslags les: þrennslags.
l. 7 skírar, ógreinlegar, les: skírar edur ógreinilegar.
73 l. 3 sem flýgur, les: og þannig fljúga.
78 l. 26 þó les: þú.
90 l. 6 eyrú les: eyru.
l. 15 fýsn les: fýsn.

---

Jnn-

# Inngángurinn.

Nockrir smá-sveinar, sem veitt hefdu því eptirtekt, er Presturinn sagdi þeim og hinum børnunum í kirkjunni, um þeirra sálar edli og eginlegleika, tóku sig saman eitt Sunnudags qvøld, fóru til Jóns litla leik-bródurs síns, og beiddu hann bera sig fram vid hann fødur sinn, til ad fá enn betri upp-frædíngu af honum um sínar og annara sálir. Þessi vitri og gódi lærdóms vinur, hafdi og tídum verid þeim svo eptirlátur, ad segja þeim frá hinu og þessu, eins og hann feck færi á í þad og þad sinni; en þad var þeim enn þá oflítid, því meiri ódaun báru þeir á ad spyrja. Þá mælti Fadirinn loksins: nú, piltar litlu! fyrst ycktur er svo mjøg um þad gefid, ad verda kunnugri sálum yckar, edur ycktur sjálfum, sem er eitt og hid sama, svo

ſkal ecki ſtanda á því fyrir mér, ad unna yckur ſtundarkorns á hvørju Sunnudags qvøldi, ſem vid þurfum til þeſs; en þad ſegi eg yckur fyrifram, ad til þeſs útheimtiſt mikil, ofur-mikil athygli, ef þid egid ad ſkilja og nema allt rétt.

Jón litli. (og hinir allir med honum í einu hljódi) O! vid ſkulum vera grafkyrrir eins og ſteinar, og taka vel eptir; Þér ſkulud fá ad ſanna þad, Fadir minn gódur!

Fadirinn. Vel ſé því!— þá ſtendur eckért í vegi ad byrja ſtrax— ſetjiſt þid nidur! (Sveinarnir ſettuſt nidur, og þá hóſſt millum þeirra og Fødurſins eptirfylgjandi).

## Fyrſta Samtal.

Fadirinn. Svo mikid hafid þid þó allir, mínir vinir! lært ad þeckja, ad þad er ecki þeſſi vor líkami, heldur, réttara ſagt, ſálin ockar, ſem lifir og gjørir allt, ſem vér aðhøfumſt; er ecki ſvo?

Jón. Ojú! þegar ſálin er ſkilin vid líkamann, ſvo liggur hann þar, eins og annad kjøtſtycki eda drumbur, og gétur alls eckért hrært ſig framar. Fad.

Fad. Satt og víst er þad; en hvernig egum vid þá fara ad því, ad læra þeckja sálina, sem hulin er í þessum líkama? — hvad? vill enginn yckar verda til, ad láta skéra upp á sér kroppinn frá hefdi nidur ad fótum, svo vid hinir gjætum sjed inn í hann, og tekid eptir því, hvílikur hlutur sálin hans mundi helst vera?

Allir. Nej! vid þockum fyrir! þad er sárt ad láta skéra sig.

Pidrik. Já, þad mundi og lítid gagna, sálina fengjum vid þó ecki sjena ad heldur; hún verdur víst ecki sjen!

Fad. Af hvorju veitstú þad svo víst?

Pidr. Menn hafa opt verid vid, þegar einn hefir dáid; nú, þá hefir þó mannsins sála farid út af líkamanum, en hafa menn fyrir þad nockurntíma sjed hana?

Fad. Þú hefir rétt fyrir þér, Pidrik minn! þad sannar nógsamlega, ad madur gétur ecki sjed sálina med augunum; en hvad ætla komi til þess, ad madur gétur ecki sjed hana med augunum?

Nikólaus. Henni verdur ad vera ödruvísi áháttad enn ödrum hlutum.

Fad. Hvörnig er þá áháttad ödrum hlutum, sem vid gétum sjed, (öllum slær í þögn)

vid skulum sjá, hvørt vid gétum ecki fyrst fengid ad vita þad? — er ecki svo, ad af því fleiri pørtum edur deildum, sem einn hlutur er samansettur, þess stærri litur hann út?

Gudmundur. Já!

Fad. Og þarámóti, af því færri pørtum, sem hluturinn er samansettur, þess minni litur hann út, er ecki svo?

Matthías. Jú, ad vísu!

Fad. Ef einhvørr hlutur hefdi nú enga parta, svo væri líka ómøgulegt ad sjá hann.

Matth. Ojá!

Fad. Tøkum til dæmis: sérhvørt bladid í einni bók, er partur af hinni sømu. Nú eru í bókinni þarna 300 blød; litla qverid hérna hefir einúngis 20 blød, hvør þeirra sýnist yckur nú stærri?

Finnur. Bókin, sem 300 blødin eru í.

Fad. Og skjæri eg nú øll þessi 20 blød, hvørt eptir annad úr qverinu litla, hvørsu margir partar yrdu þá eptir af því?

Gudm. Bandid einúngis.

Fad. Og tæki eg nú líka þenna sídasta partinn í burtu, hvad sæud þid þá eptir?

Jón. Eckért.

Fad. Eg ecki heldur, því þá væri enginn partur framar eptir af qverinu. Þess vegna

vegna hlýtur allt, sem sjáanlégt er med augunum —

Jón. Ad hafa parta.

Fad. Og allt þad, sem ecki er sett saman af pørtum?

Jón. Þad gétur madur ecki heldur sjed.

Fad. Skilst yckur nú, hvad til þess kémur, ad vid gétum ecki sjed sálina ockar?

Allir. Þad: hún er ecki samansett af pørtum.

Fad. Og vitid þid, hvad menn kalla þá hluti, sem ecki eru samansettir af pørtum? — menn kalla þá einfalda hluti, edur einfaldar verur, þad er sama sem andlegar verur.

Gudm. Ah! sálin ockar er þá líka einføld vera!

Fad. Rétt! hún hefir enga parta, sem madur fær skilid ad, eins og eg gét klippt einn part eptir annann af þessu pappírs bladi, og þad er orsøk til þess, ad madur gétur hvørki sjed, heyrt, smackad, ylmad, edur þreifad á sálunni.

Jón. Ih! svo er hún þá alls eckért.

Fad. Hvernig heldurdú þad?

Jón. Þegar madur gétur alls eckért sjed, heyrt, ylmad, smackad, edur þreifad á, svo er þad heldur eckért. A 3 Fad.

Fad. Svo sýnist þad; en þad bleckir ockur tídum, sem sýnist. Piltar litlu! hvad var þad, sem brá nú fyrir dyrnar?

Allir. Glampinn af ljósinu, sem borid var um gaunginn af einhvorjum.

Fad. Segid mér! hvør var þá orsøkin til glampans, sem vid allir sáum bregda fyrir.

Allir. Ljósid.

Fad. Sáud þid þá þetta ljós, og þann, sem héllt á því?

Allir. Nej!

Fad. Af hvørju vissud þid þá, ad þad var ljós.

Jón. Af því vid sáum glampann af því.

Fad. Þad er þá af því, ad ljósid gjørdi nockud, framqvæmdi nockud, sem án þess mundi ecki hafa skéd.

Jón. Já! þad glampadi edur lýsti.

Fad. Enn þá eitt! hvad hef eg hérna?

Allir. Ah! Segulsteininn Ydar!

Fad. Hvad gjørir hann núna?

Allir. Hann dregur nálina ad sér; hæ! þad er skrítid.

Fad. Gétid þid nú séd þann krapt, med hvørjum Segulsteininn dregur járnid ad sér?

Allir. Nej!

Fad.

Fad. Máské þid gétid þá ylmad, smackad, edur þreifad á þessum krapti?

Allir. Ne!

Fad. Af hvørju vitid þid þá aptur svo víst, ad Segulsteinninn hafi þenna krapt, og ad hann raunar sé þarna í steininum?

Jón. Af því vid sjáum ad þessi kraptur gjørir nockud.

Fad. Hvar, sem þá eitthvad er gjørt, edur framqvæmt, þar heldur þú hljóti ad vera einhvørr hlutur, sem gjøri edur framqvæmi þad?

Jón. Já! þad held eg.

Fad. Rétt! ef þú fengir þá med vissu ad vita, ad sálin ockar gjørdi líka nockud, edur framqvæmdi nockud, ætla þú efadist þá um, ad hún væri þar; ad hún raunar sé eitthvad?

Jón. Nej! þá efadist eg ecki lengur um þad.

Fad. Gott og vel! látum ockur þá snøggvast reyna til, hvørt vid fáum ecki stadid sálina ockar ad verkinu, rétt í því hún er ad gjøra nockud; (í hálfum hljódum) verid nú allir grafkyrrir, svo vid sipum ecki fyrir henni. Þej! þej! nú fáum vid rétt strax ad sjá nockud af hennar starfi. — (kallar á

hvølpinn) Spadilla! (hann tekur tíkina, og setur hana uppá bordid) svona, horfid þid nú allir rétt á hana! nú! látid allir fast aptur augun; svona!—og reynid nú til, hvørt þid gétid ecki sett yckur hana Spadillu fyrir sjónir í huganum, án þess þid ljúkid upp augunum. Gétid þid þad?

Allir. Já! ójá! rétt greinilega, eins og vid sæum hana enn þá med augunum.

Fad. Þid gétid því, jafnvel med luktum augum gjørt yckur ímind af einu og ødru, og sett yckur þad fyrir sjónir í huganum; er ecki svo?

Allir. Jú! þad gétum vid.

Fad. Og hvørjir eru þá þessir Vér, sem géta þad? er þad líkaminn yckar?

Nikól. Ah! þad verdur ad vera sálin í ockur, sem gjørir þad.

Fad. Hvad gjæti þad, haldid þid, annad verid? þad, ad líkaminn ockar útaf fyrir sig sjálfann, megnar eckért ad gjøra, vitum vid víst; þess vegna hlýtur sálin, gátulaust, ad gjøra allt, sem vid adhøfumst. Í sama máta, þegar vid nú setjum ockur eitthvad fyrir sjónir í huganum, hvørt ætlid þid gjøri þad, sálin edur líkaminn?

Allir. Sálin.

Fad.

Fad. Nú, Jón litli! sýnist þér það enn þá svo, sem sálin ockar sé alls eckért?

Jón. Nej! af því hún gétur gjert nockud, hlýtur hún líka sjálf ad vera nockud.

Fad. En ef einhverr vildi nú vita, hvad sálin ockar raunar væri, hverju gætum vid svarad honum, eptir því, sem vid höfum nú komist ad hjá henni?

Jón. Sálin er sá hlutur, sem gétur gjert sér hugmind um eitt og annad.

Fad. Hvilíkann hlut pløgum vid ad kalla hugmindunar-krapt.

Jón. Sálin ockar er þá hugmindunar-kraptur.

Fad. En, er þá ecki líka spegillinn, sem hángir þarna á þilinu rétt hid sama? sýnir hann ecki mind þess, sem fyrir hann er borid?

Matth. Já!

Fad. Spegillinn og sálin eru þá máské eitt og hid sama? sálin er spegill, og spegillinn er sál, eda er ecki svo? (alla ra[?] í stans, og vissu ecki hvad þeir áttu ad segja) yckur hnickir vid, eg vil því vísa yckur á veginn: þegar sálin yckar gjerir sér hugmind um eitthvad, mun hún þá vita hvad hún gjerir? veit hún af því ad hún gjerir ser hugmind um nockud.

Pidr. Ojá!

Fad. En þegar þid gángid fram fyrir spegilinn, og hann nú sýnir mindina af yckur, haldid þid ad hann viti þá líka hvad hann gjörir, eda hvør sú mind sé, sem sjest í honum? segid mér! haldid þid þad?

Allir. Onej! spegillinn veit víst eckért af því.

Fad. Þess vegna er ærinn mismunur á sálunni og speglinum; hvørr yckar gétur gjørt grein á þessum mismun? í hvørju er hann nú innifalinn?

Jón. Sálin veit af hugmindinni, sem hún gjørir sér, en spegillinn eckért um mindina, sem sjest í honum.

Fad. Spegillinn setur þá einúngis mind eins hlutar fyrir sjónir ødrum, sálin þar á móti setur sér hlutarins mind fyrir sjónir í huganum; þad er med ødrum ordum: sálin er sér sín medvitandi, bædi sjálfrar sín og hlutarins, sem hún gjørir sér hugmind um; en spegillinn veit hvørugt, hvørki af sjálfum sér, edur af hlutnum, sem hann setur fyrir sjónir, edur afmálar; er ecki svo?

Allir. Júiú! svo er þad.

Fad. Vid vitum þá þegar þrjá hluti um sálina; hún er —

Jón.

Jón. O! á eg að segja það? — hún er einföld eður andleg vera, sem gjörir sér hugmynd um hlutina, og er sér sjálfrar sín meðvitandi.

Fað. Rétt! nú skulum við aptur fá sálunni ockar hitt og þetta að gjöra, svo við gétum vitað, hvað hún kynni máské enn þá géta gjört. Sjáið! hérna er bók; undir eins og þið lítið hana nú augunum, hvað gjörir þá sálin yckar?

Allir. Hún gjörir sér hugmynd um bókina.

Fað. Hérna er bjalla; heyrið hvörsu fagurt hún hríngir! kling-kling-kling! undir eins og þið heyrið til hennar, hvað gjörir sálin yckar þá?

Allir. Hún gjörir sér hugmynd um hljóminn.

Fað. Hérna er Blóðbjörg, sem eg tók áðan uppí holti, finnið sneggvast, hvörsu efurgóður ylmur er af henni! — hvað gjörir nú sálin yckar, undir eins og ylmurinn af Blóðbjörginni leggur uppí nasirnar á yckur?

Allir. Hún gjörir sér hugmynd um ylminn af Blóðbjörginni.

Fað. Hér eru nockrar rúsínur, ein á mann; bregðið heim snøggt uppí munninn! hvað gjörir sálin yckar, í því þið tiggið rúsínurnar? A 6 All-

Allir. Hún gjørir sér hugmind um smeckinn af heim.

Fad. Hvørr, sem þegid hefir gott af einum, má ecki teljast undan ad þiggja líka eitt skipti litid óþægilegt af honum. Nú, réttid fram lófann! fyrir hvørja ráslunna verdur hvørr yckar ad fá eitt blak med þessari pálmastiku.

Allir. Æ! æ! æ! æ! (allir fara hlæja)

Fad. Hvad gjørdi sálin yckar núna, þegar þid kénndud á pálma-stikunni?

Allir. Hún gjørdi sér hugmind um, ad þad væri sárt.

Fad. Segid mér nú: ef þid hefdud engin augu ad sjá med, engin eyru ad heyra med, engar nasir ad ylma med, ecki góm ad smacka med, og engar sina-taugar um allann kroppinn, ad finna til med; í einu ordi: ef þid hefdud alls engin sansa-verkfæri [1]), mundi þá sálin yckar hafa gjørt sér hugmindir um allt þad, sem hún gjørdi sér nú hugmindir um?

Nikól. Nej! ad vísu ecki.

Fad. Þess vegna: þad, sem eggsin er handa trésmidnum, nálin handa saumakonunni,

[1]) Sansa-verkfæri hljóta hjer brúkast fyrir Skilníngar-vit.

unni, penninn handa skrifaranum, hid sama eru sansa-verkfærin handa sálunni; þau eru hennar smída-tól, hennar verkfæri, þeirra gétur hún ecki án verid, þegar hún vill gjøra sér hugmind um einhvørn hlut, edur, sem er þad sama, þegar hún vill setja sér eitthvad fyrir sjónir í huganum. Nú høfum vid þá aptur fengid nockud ad vita um sálina ockar; hvad mikid vitum vid nú þegar um hana?

Nikól. Æ! eg, eg! sálin ockar er einføld vera — sem er sér sjálfrar sín medvitandi — og sem gjørir sér hugmindir um hlutina — fyrir tilstyrk sansaverkfæranna.

Fad. Ágjætt, Nikólaus! nú gétid þid sagt mér, med-hvørju sansa-verkfæri sálin yckar gjørir sér hugmind um þann eda þann hlut sérílagi?

Pidr. Med sjóninni gjørir hún sér hugmind um þad fallega edur ljóta, sem fyrir augun ber.

Jón. Med heyrninni, gjørir hún sér hugmind um hljóminn edur óhljóminn, sem berst ad eyranu.

Nikól. Med smecknum gjørir sálin sér hugmind um smeckinn edur ósmeckinn af því, sem madur ber í munn sér

Gudm. Med ylmaninni gjörir hún sér hugmind um dauninn edur ódauninn, sem kémur upp í nefid.

Finn. Med tilfinníngunni gjörir hún sér hugmind um allt þad, sem madur tekur á, edur snertir vid honum.

Fad. Hafid nú sælir sagt! annad sunnudags=qvøld, ef vid þá lifum, megid þid koma aptur, þá skulum vid tala meira um sálina ockar; viljid þid þad?

Allir. Iá, ójá! hjartans fegnir. Verid Þér sælir!

## Annad Samtal.

Fadirinn. Ef yckur lángar til þess, svo skulum vid aptur í qvøld masa fátt eitt um sálina ockar.

Allir. Ojá, ójá! Fadir minn gódur! vid viljum fegnir heyra meira um hana.

Fad. Litid á, eg hefi komid híngad med skrif=tøblu mína, á hvørja vid skulum med fám ordum uppteikna í hvørt sinn þad, sem vid fáum komist ad um sálina ockar; svo ætla eg þá ad hengja hana uppá þilid, til

þess þid gêtid litid á hana, og rifjad upp fyrir yckur. hvad eptir, sem þid fáid lært um sálina.

Nikólaus. Já! þad er vel tilfundid, svo gétum vid ætíd litid á hana aptur ockur til minnis.

Fad. Þá nær efninu! — komid híngad snøggvast ad glugganum allirsaman; sjáid þid nockud þarna lángt út á flóanum?

Allir. Já! þarna lángt sudur frá.

Fad. Sjáid þid þad ecki bærast úr stad?

Allir. Jú, ójú! þad er eitthvad lifandi.

Þidrik. Þad er vísast, þad sé einhverr hesturinn.

Fad. Þad gétur verid; en máské líka þad sé ecki hestur, heldur saudkynd, eda hundur, eda einhvør ønnur sképna; ellegar máské þid gétid deilt, hvad þad raunar muni vera.

Allir. Nej! vid sjáum þad einúngis bærast.

Fad. Þad sje eg líka, en ecki framar. Sjáid! þarna hefir þá sálin ockar hugmind um einn hlut, sem henni er ecki unnt ad deila frá ødrum hlutum. Vitid þid, hvad menn kalla þvílíka hugmind? — menn kalla hana óskíra hugmind. — Hefir nú sál-

in

in yckar haft optar þvílíkar óſkírar hug-
mindir?

Jón. Ojá! þegar vid vórum uppá holt-
inu, þá ſáum vid lángt, lángt út í haſi
ſkip, ſem frá ockur var ad ſjá, ſem ein-
hvørr ſár lítill ſvartur díll; vid gátum og
ecki heldur deilt þad frá ødrum hlutum;
vid viſſum ecki, hvørt þad heldur var Svart-
bakur eda ſkip.

Fad. Þid hefdud þá líka óſkíra hug-
mind um þad; — en þegar ſkipid nálg-
adiſt betur, gátud þid þá ecki deilt þad frá
ødrum hlutum?

Þidr. Ojú! þá gátum vid þad nógu vel.

Fad. En gátud þid þá þegar deilt maſtr-
id, reidann, ſtýrid, og hvørn einſtaka hluta
ſkipſins fyrir ſig?

Allir. Nei!

Fad. Hefdi þá einhvør ſpurt yckur ad:
hvørjir einſtaka hlutar hins fjarlæga ſkips
væru? af hvørjum einkunnum edur kénni-
merkjum þid þecktud þad frá ødrum hlut-
um? ætla þid hefdud gétad ſvarad honum
til þeſſara ſpursmála?

Allir. Nej!

Fad. Hvada hugmind ſkyldi þad þá,
haldid þid, hafa verid, ſem ſálin yckar
gjørdi

gjerdi sér í það. skipti um skipið? óskír hugmind var það þó ecki lengur; því þið voruð þegar að fullu sannfærdir um, að það væri eckért annað enn skip; .þið gátuð því þegar deilt það frá ødrum hlutum. — Og þó gátuð þið enn þá ecki giørt grein á, að hvørju það sérílagi mismunaði frá ødrum hlutum? — heyrið børn! þvílíka hugmind nefna menn að vísu skíra, en undir eins ógreinilega hugmind.

Guðm. O! þetta verðið þér líka, Faðir góður! að skrifa á tøbluna fyrir ockur!

Fað. Hvað þá?

Guðm. Að sálin ockar gjøri sér stundum óskíra, stundum skíra en þó ógreinilega hugmind.

Fað. Hafið enn þá dálitla þolinmæði; svo skuluð þið sjálfir segja mér til, hvað eg á að skrifa upp; — segið mér fyrst: sjáið þið eckért þarna úti, um hvørt sálin yckar gjørir sér að sønnu skíra, en þó undir eins ógreinilega hugmind?

Nikól. Ojú! um hestinn, sem er að bíta þarna rétt fyrir utan túngarðinn.

Fað. Vegna hvørs segist þú ecki hafa óskíra, heldur skíra, en þó ógreinilega hugmind um hestinn þarna?

Nikól. Af þvi eg gét skírlega sjed, ad þad er heldur hestur enn annar gripur, en eg veit samt ecki, hvada hestur þad er, eda hvørnig litur; þad getur verid hann Jarpur, eda hann Sóti eda hún Raudka, eda einhvørr annar dockleitur hestur.

Fad. Af þvi þá, ad þú getur ad sönnu deilt hestinn frá kú eda saud, en getur þó ecki giørt þér hugmind um hvørja einkunn á honum fyrir sig, svo sem: l[illegible]inn, hárfarid, faxid, taglid; eda er ecki svo?

Nikól. Jú, fadir gódur!

Fad. Þú sagdir þvi rétt, ad þú hefdir ad sönnu skíra, en þó jafnframt ógreinilega hugmind um hestinn; en litum nú snøggvast til hríslunnar, sem liggur þarna fyrir utan gluggann: heldurdú sálin þin hafi ecki enn þá adra hugmind um hana enn hestinn, sem þú sjer fyrir utan túngardinn?

Nikól. Jú!

Fad. Og vegna hvørs þá?

Nikól. O! á hríslunni gét eg giört grein á svo mørgu: eg sje børkinn, greinarnar, stofninn, alltsaman greinilega.

Fad. Um hrísluna getur þú þvi sagt, af hvørju eda fyrir hvør audkenni hún adgreinist frá ødrum hlutum — er ecki svo?

Nikól.

Nikól. Jú! þad gët eg.

Fad. Þú hefir því enn þá meir enn skíra og ógreinilega hugmind um hr-sluna; þú hefir — takid nú eptir þid hinir! — þá hefir greinilega hugmind um hana.

Jón. Nú þeck'um vid þegar fernslags hugmindir: óskírar, skírar, ógreinilegar og greinilegar hugmindir.

Fad. Dável eptirtekid! en hvërja hugmind hafdir þú, Jón litli! medan þá varst ad skoda tre-hestinn, sem hann Gudmundur þinn barna gaf þër í fyrradag?

Jón. Greinilega hugmind.

Fad. Vegna hvërs þá?

Jón. Vegna þess eg gët deilt hann frá øllum ødrum hlutum, líka þess vegna, ad eg gët nafngreint kënnimerki þau, fyrir hvør hann mismunar frá øllum ødrum hlutum.

Fad. En þú, Pídrik minn! þegar þú ert ad hringja litlu bjøllunni þinni, eda þegar þid heyrid hríngt til messu á sunnudøgunum, hvada hugmindir hafa þá sálirnar yckar um kluckna-hljóminn? (allir þegja) reynum til. hvört vid gëtum ecki gëtskad. uppá þad! gëtid þid ecki greint kluckna-hljóminn frá øllu ødru hljódi.

Allir. Jú! þad gëtum vid ad vísu.

Fad.

Fad. En ef einhverr spyrdi yckur nú ad: af hverju klucknahljómurinn adgreindist frá öllu ødru hljódi? mundi yckur unnt ad lýsa audkennum-hans.

Allir. Nej!

Fad. Hvorja hugmind hafid þid þá um hann?

Nikól. O! eg veit þad, eg veit þad nú! ad sennu skíra, en þó ógreinilega hugmind.

Fad. Rétt! en mun nú ecki sérhvers yckar sál, hafa líka haft einhverja óskíra hugmind um eitthvad, sem sídan ádan vid hefir borid hér innan húss?

Jón. Hvad-gjæti þad verid? vid hefum verid ad taka eptir því, sem Þér hafid sagt ockur, Fadir minn! eg hef gjørt mér greinilega hugmind um tré-hestinn minn, eg vid allir lagsbrædurnir ógreinilega hugmind um klucknahljóminn í dag.

Fad. Þad vardar engu! þú verdur einúngis ad vita, Jón minn! ad sálin ockar gétur haft meir enn eina hugmind í senn; þad er ad skilja: undir eins og hún er ad gjøra sér greinilega og skíra hugmind um eitthvad, þá gétur hún jafnframt í sama sinn, gjørt sér óskírar hugmindir um marga adra hluti. Til dæmis: þid erud ad taka

ept-

eptir því, sem við höfum verið að tala um, en hafið þið ecki jafnframt heyrt málróminn fólksins upp í loptinu?

Jón. Jú!

Fað. En með því sérhvørr yckar hefir gèfið sig allann við, að taka sem best eptir því, sem við höfum verið að tala um, þá hafið þið alls engann gaum gèfið að glaumnum uppi; eða mun sálin yckar síðan áðan, hafa gétað deilt orðalag og málróm fólksins frá sérhvørrinn øðrum hávaða.

Allir. Nej!

Fað. Hvaða hugmind mun þá sálin yckar hafa gjørt sér um málróminn fólksins síðan áðan?

Allir. Óskíra hugmind.

Fað. Þið sjáið þá, að sálin yckar hefir í þetta skipti haft líka óskíra hugmind! segið mér nú til, hvað eg á að skrifa uppá tøbluna.

Nikól. O! má eg ecki gjøra það?

Allir. Æ! nej! eg! eg! eg!

Fað. Þið gètið þó ecki allir sagt mér það undir eins — við verðum að draga um það — nefnið sneggvast, hvørr eptir því, sem að honum kémur, eina af Plánetunum, og það í þeirri røð, sem þær koma hvør eptir aðra í

Vina-

Vinagledi, blſ. 57-58, um vora Sólheima; ſá, ſem nú kemur nidur á hinni ſídustu edur á Uranus, hann hefir unnid. (Þeir nefndu Plánéturnar, og Uranus kemur á Nikólaus) Hana þá, Nikólaus! ſegdú mér fyrir!

Nikól. Sálin ockar gjørir ſér óſkírar hugmindir um ſuma hluti.

Jad. Biddú vid! — nú verdur þú líka fyrſt ad leſa mér fyrir, hvad þad ſé.

Nikól. Þad er: hún gétur ecki deilt þann hlut, ſem hún gjørir ſér þvílíka hugmind um, frá ødrum hlutum.

Jad. Vel fer! — nú meira!

Nikól. Sálin ockar gjørir ſér og á ſtundum ſkírar hugmindir um eitt og annad.

Jad. Þad er? —

Nikól. Hún gétur ad ſønnu deilt þann hlut, ſem hún gjørir ſér þvílíka hugmind um, frá ødrum hlutum, en gétur þó ecki nafngreint audkénnin, af hvørjum hann adgreiniſt frá þeim.

Jad. Og hvad nefniſt þá líka þeſſi ſkíra hugmind?

Nikól. Ogreinileg.

Jad. Eg er búinn med þad; meira nú!

Nikól.

Nikól. Sálin ockar gjørir sér líka einatt greinilega hugmind um eitt og annad.

Fad Pad er:

Nikól. Hún gétur ecki einúngis adgreint þad, sem hún gjørir sér þvílíka hugmind um, frá ødrum hlutum, heldur gétur hún líka nafngreint audkénnin, fyrir hvør þad adgreiniſt frá þeim.

Fad Búid er! — ádur enn vid høldum lengra áfram, þá ſegid mér yckar meiníngu: hvørt allt þetta, ſem vid nú þegar þeckjum um ſálirnar ockar, muni eins líka ega heima hjá dýranna ſálum? — fyrſt og fremſt: munu dýranna ſálir einnig vera einfaldar edur andlegar verur, hvad haldid þid?

Jón O! Gátulauſt! þær fær madur ecki ſjed, heldur enn ſálirnar ockar.

Fad. Og haldid þid þeſſar dýra-ſálir gjøri ſér líka hugmindir um nockra hluti?

Þidr. Já, ad víſu! — þvi þegar eg kaſta køku-bita fyrir hundinn, grípur hann hann ſtrax, hann hlýtur þvi fyrſt ad hafa gjørt ſér hugmind um køkuna.

Fad. En ætlid þid hundſins ſál viti líka af því, ad hún gjøri ſér hugmind um nockud, og ætlid þid hún ſé ſér þá medvitandi ſinna hugminda? Nikól.

Nikól. Vissulega! því annars mundi hann ecki glepsa eptir bitanum.

Fad. En munu dýranna sálir gióra sér hugmindir um hlutina fyrir tilstyrk sansaverkfæranna?

Gudm. Ojá! hún Spadilla ockar gétur rétt eins og vid, sjed, ylmad, heyrt og fundid til.

Fad. Lyktina hefir hún lángtum kreptugri enn vid. Dýrin hafa, yfir höfud ad tala, eitt og annad sansa-verkfæri lángtum næmara enn manneskjan. Hjá sumum finnast færri sansa-verkfæri enn vid höfum; sum kunna og vera giædd sansa-verkfærum, sem vid þeckjum alls eckert til. Nú — dýrin hafa þá og sansa-krapt. Látum ockur enn framar spyrja: sálin ockar giørir sér óskírar hugmindir um suma hluti, hvad haldid þid, munu dýrin þá líka giøra þad?

Finnur. Já! þad hygg eg!

Fad. Vegna hvørs heldur þú þad?

Finn. Eg hef ecki vit á, ad útlista þad svo vel!

Fad. Þad er: þú hefir siálfur enn þá ecki greinilega hugmind um þad, því annars gætir þú skírt frá því. Látum siá! þegar ockur dreymir, þá giørum vid ockur óskíra

skíra hugmind um það, sem ockur er að dreyma um; er ecki satt?

Sinn. Jú!

Sað. Nú, hefir þú aldrei tekið eptir því, hvørt hundana sé líka vant að dreyma?

Sinn. Ojú! stundum gélta þeir rétt há-støfum í svefninum, og fladra með róunni.

Sað. Efastú þá lengur um, hvørt sálir þeirra hafi og á stundum óskírar hugmindir.

Sinn. Nej. — En hafa þær þá skírar hugmindir?

Sað. Það skulum við strax fá að sjá! Hérna er steinn og brauðbiti, hvørttveggja eins stórt, og nær því jafnlitt; leggjum það nú hvørttveggja fyrir hana Spadillu, og gætum svo að, hvørt hún muni taka skackt til, eður hvørt hún hefir strax vit á, að að-greina brauðið frá steininum; kalli ein-hvørr yckar á hana híngað!

Matthías. (þá hann kemur aptur) Hana Spadillu fann eg ecki, en hérna er hann Cerberus.

Sað. Það er sama. Nú gætið að; Cerberus! — ha! ha! hvað sýnist yckur?

Matth. Það er satt, hann hefir gott skyn-bragð á, að greina brauðið frá steininum.

Sað. Hvaða hugmind hafði hann þá núna?

Gudm. Skíra hugmind.
Jad. En ætla hann hafi þá hugleidt, af hvørju braudid raunar mismunar frá kjøti?
Jón. Nej!
Jad. Vid høfum ad minnsta kosti engin røk til ad ætla þad. Dýrin láta aldrei greinilegar hugmindir í ljósi; og má því med sanni segja: ad þau séu óhæfileg til þvílikra huginda. Þess vegna eru þetta enir fyrstu yfirburdir, sem gódur Gud gèfid hefir ockar sálum framyfir allra dýra sálir. Viljid þid fá ad vita, hvad nafn menn plaga gèfa þessum vorum yfirburdum? menn kalla þá: skilníng edur mannvit; svo þegar menn segja: vor sála hefir skilníng; hvad er þad þá med edrum ordum?
Jón. Hún gètur gjørt sèr greinilega hugmind um eitt og annad.
Jad. Rètt! vid skulum þá líka teikna þad uppá tebluna ockar — svona! og nú ecki nema eitt spursmál: þared skilníngurinn er innifalinn í þeim krapti, ad gèta gjørt sèr greinilega hugmind um eitthvad; hvørnig vættum vid þá, haldid þid, fara ad því, ad efla, auka, og gjøra þenna vorn skilníng fullkomnari?

Jón.

Jón. Vid verdum ad ástunda, ad gjöra ockur rétt greinilegar hugmindir um alla hluti.

Fad. Rétt! en hvörnig förum vid nú ad því? — hvörr veit þad?

Gudm. O! eg, eg! — vid verdum einkum ad taka vel eptir, þegar vid sjáum edur heyrum eitthvad.

Fad. Rétt svo! — því framar, sem vid tökum eptir og gêfum gjætur ad öllu, sem vid sjáum edur heyrum, því greinilegri verdur ockar hugmind um þad! — sjáid! mínir úngu vinir! þar hafid þid allt í einu lært ad þeckja eitt óbrygdult medal til ad fá gódann og mikinn skilníng; og þetta medal er? —

Allir. Eptirtektin!

Fad. Brúkid hana því vandlega í öllu, sem yckur er kénnt; í öllu, sem þid sjáid og heyrid, svo fáid þid ad þeckja þad margt ágjætt og gott, sem adrir, af fávitsku, álíta enkis verdt. Svo er nóg í qvöld!

# Þridja Samtal.

(Næsta sunnudags-qvøld, er sveinarnir vóru samankomnir, og búnir ad heilsa, tók fadirinn Pálma-stiku í hønd sér, og án þess ad mæla ord frá munni, gaf hann sérhvørjum þeirra lítid blak.)

Allir. æ! æ! ah! ah! hi! hi! ah! ah! ha! ha!
Fadirinn. Hvørju gégnir þetta?
Allir. Þad er sárt!
Fad. Þad er mér kiært!
Allir. Hvad kémur til þess?
Fad. Þad, ad þid hafid nú aptur lært á því ad þeckja einn ágiætann eginlegleika hjá sálunni yckar.
Jón. Hvørn þá?
Fad. Þid fundud allir til nockurskonar sárs-auka af pálma-stikunni; var ecki svo?
Allir. Já!
Fad. Þid vitid þó allir, af hvørju þessi sárs-auki kom?
Allir. Já!
Fad. Pálma-stikan nefnilega, var orsøkin til sárs-aukans, og sárs-aukinn var verk-

verkgúnin, sem framkom af pálma-stikunni; var ecki svo?

Allir. Jú!

Fad. Sálin yckar gêtur því þeckt af einum og ødrum verkunum orsøkina, og af einum og ødrum orsøkum verkunina?

Nikólaus. En hvad er þá raunar þetta — orsøk og verkun?

Fad. Pad, sem gjørir, edur kémur einhverju til vegar, er kallad orsøk, en þad, sem er gjert, edur komid verdur til vegar med einhverju ødru, er kallad verkan. Pálma-stikan, edur greinilegar ad tala, armleggurinn á mér, sem hêldt á pálma-stikunni, gjørdi sárs-aukann, og var þess vegna orsøk til hans; sárs-aukinn var gjørdur, edur honum var til vegar komid af armlegginum á mér med pálma-stikunni, og því var sárs-aukinn verkan af honum og pálma-stikunni. Skilst yckur nú?

Allir. Ojá!

Fad. Nú! gêtur þá ecki sálin yckar þeckt greinilega af sumum hlutum orsøkina til þeirra, og veit hún ecki allt eins greinilega af ødrum hlutum verkun þá, er þeir hafa?

Allir. Jú!

Fad. Svo takid þá eptir því, sem eg raunar ætladi ad segja yckur: af því sálin ockar gètur þetta, þá segir madur hún hafi skynsemi. Hefir þá sálin yckar lika skynsemi?

Allir. Ojá! þad lærum vid í barnalærdóminum ockar.

Fad. Vegna hvørs hefir hún skynsemi?

Didrik. Jú! vid reyndum þad fyrir skëmmstu; vegna þess hún gètur greinilega þeckt þad, sem gjørir eitthvad, og þad, sem gjørist med og af einhvørju.

Fad. Hafid þid nú þegar lært ad þeckja orsøk til fleiri hluta? — til dæmis: nú er regn úti; af hvørju këmur regnid?

Gudmundur. Af skýjunum.

Fad. Hvad eru þá skýin?

Matthías. Orsøk til regnsins

Fad. Og hvad er regnid?

Jón. Verkan af skýjunum.

Fad. Og hvad heitir nú kraptur sá í sálunni, fyrir hvørn hún ber kënnsli á þetta?

Allir. Skynsemi.

Fad. Mér dettur nockud í hug: tókud þid eptir regn-boganum, sem sást á himninum í dag?

Allir. Já, Ojá! hann sást í qvøld undir sólarlagid, þegar vid vórum á leidinni

hîngad heim; hvør mun vera orsøk til hans?

Fad. Pad vil;id þid vita! engin ønnur enn vætu-dampar og regn-dropar, sem þá eru ætíd miklir í loptinu, þegar hann sjest, ígégnum hvørja sólar-geislarnir skína, og undir eins og þeirra skin brotnar á dømpunum, kastar þad frá sér til augans 7 adgreindum litarháttum, svo sem: blá-lifraudum, purpura-raudum, bláum, grænum, gulum, ljós-gulum og raudum lit. Til sanninda-merkis um þetta, sjer madur ena sømu liti, þegar hann setur glas fullt af vatni í sólar-geislann, og horfir svo ígégnum þad baktil. Sumir hafa til þess þrístrendt gler eitt, sem heitir Prisma, þessu er haldid gégnt sólar-geislunum, svo þeir nái ad skína í gégnum þad, og þá framkoma rétt sømu litir, sem í regnboganum sjást. Nú vitid þid orsøkina til regnbogans; og hvør er hún aptur?

Pidr. Vætu-damparnir í loptinu, og sólar-geislarnir, sem skína í gégnum þá.

Fad. Og regnboginn er þá aptur verkan af þessu hvørutveggju; en med hvada krapti í sálunni ýckar gétid þid komist ad þessu?

Pidr. Med skynseminni.

Fad. Hvad haldid þid um þad: muunu dýranna sálir einnig hafa skynsemi?

Allir. Nej! — því menn kalla þau skynlaus dýr.

Fad. En ætla menn géfi þeim þá þetta nafn med réttu? er þad víst, ad þau géti í engu falli þeckt orsök til nockurs hlutar, og stendur aldrei svo á, ad þau raunar viti, hvílíka verkun ýmsir hlutir hafa?

Jón. Jú! — þegar vid, t. d., sýnum honum Cerberus ockar svipuna, þá leggur hann af stad, af því hann hefir stundum verid barinn med henni, þegar hann klóradi holurnar í kálgardinum.

Fad. Þú heldur þá hann viti, ad svipan sé orsök til sárs-aukans, sem höggin fengu honum?

Jón. Já! þad held eg víst.

Fad. En mun hann þá gjöra sér greinilega hugmind um þessa svipu, og um sársaukann, sem hún feck honum?

Jón. Nej! dýrin hafa víst einúngis óskírar og ógreinilegar hugmindir.

Fad. Rétt, Jón minn! — þar ed sá, er vér eignum skynsemi, hlýtur greinilega ad þeckja hlutanna orsakir og verkanir, og nú ega dýrin ecki kost á því; gétum vid þá sagt: ad þau hafi skynsemi?

Allir.

Allir. Nej!

Fad. Þess vegna eru þetta enn aptur veglegir yfirburdir, sem Skaparinn hefir sæmt ockur med, fram yfir allar adrar lifandi skepnur hér á jørdunni; og hvílikir yfirburdir? það eru þeir, sem gjøra oss hæfa til, ad vidurkénna og elska vorn Skapara, og med hlydninni vid hans bodord ná hlutdeild í þvílíkri farsæld, sem engin skynlaus vera er hæfileg til. Gjøldum honum því þackir fyrir það, og med gódri brúkun þessarar gáfu, leitumst vid ad gjøra ockur hennar æ verdugri! — nú, Jón litli! segdú mér fyrir, hvad eg á ad skrifa upp.

Jón. Sálin ockar hefir líka skynsemi.

Fad. Hvad heitir það med ødrum ordum?

Jón. Hún gétur greinilega þeckt orsakir og verkanir margra hluta.

Fad. Og hvernig egum vid nú ad bera oss ad, svo vid fáum rétt mikla skynsemi?

Jón. Vid verdum ad kosta kapps um, ad grenslast eptir hlutanna orsøkum og verkunum.

Fad. Það er, med ødrum ordum: vid hljótum ad venja oss til þess ad spyrja, þegar einhvørr hlutur mætir oss: hvørnig orsakadist hann? hvadan hefir hann sín

 upp-

upptøk? hvørt hefir gjørt hann? og enn framar; hvør nytsemi er ad þessum hlut? hvørju kémur hann til leidar? til hvørs brúkast hann?

Jón. Já!

Fad. Nú, børn góð! látum ockur halda áfram ad grenslast um sálina ockar, hvørt vid fáum ecki uppgøtvad'enn þá fleiri eginlegleika h'á henni. En svo vid séum ecki adgjørdalausir á medan, þá látum ockur masa eitthvad saman.

Nikól. Um hvad á þad ad vera?

Fad. Um þessa tøblu; eg skal brjóta uppá samtalinu; ef eg segdi nú eitthvad, sem synast mætti, eg hefdi rángt fyrir mér í, svo gef eg yckur leyfi til, ad bera á móti mér, þó þad sé annars kostar, eins og þid gjørla vitid, ósvinna fyrir børn. — Þessi tabla er snjóhvít.

Allir. (brosandi) Nej; tablan þessi er ecki snjóhvít, hún er kolsvørt.

Fad. Þar greinir ockur strax undra mikid á. Eg játa því, ad tablan sé sn'ó, hvít, en þid nejtid því allir. Var ecki svo?

Allir. Jú, vissulega!

Fad Þid þykist þó hafa á réttu ad standa?

Allir. Ojá. Fyrir víst þad!

Fad.

Fad. Bidid vid! þar hefum vid þá strax aptur, fyrr enn ockur vardi, uppgötvad einn nyjann krapt í sálunni ockar; — hún fær þá líka skilid, hvört játa má edur nejta einhvörju.

Allir. Já! það gétur hún.

Fad. Nú, það þykir mér vænt! svo veit eg ad sálirnar ockar kunna dæma um, og hafa greind á hlutunum.

Jón. Ad dæma um, og hafa greind á?

Fad. Já! því það heitir ad dæma um, edur hafa greind á, þegar madur hefir vit á því, hvört einum hlut má játa edur nejta; gétur ecki sálin yckar það líka?

Allir. Ojú!

Fad. Vid skulum snöggvast reyna til aptur, hvört það sé þá víst og satt. Eg ætla skrifa nockud uppá töbluna, og þid skulud segja mér til, hvört játa megi edur nejta því, er eg skrifad hefi. (Hann skrifar á töbluna) Vor jörd er ferhyrnd; skilur nú sálin yckar, hvört heldur játa megi edur nejta þessari málsgrein?

Allir. Ojá! henni má nejta. Vor jörd er ad vísu kringlótt, hvörnig gétur hún þá verid ferhyrnd?

Fad. Eg sje þad raunar satt vera; sálin ydkar hefir nú þegar greindar-krapt. — Hlaupum þó samt ekki á ockur; — þad kynni henda sig þad væri ekki satt! Því spyrja mætti: veit þá sálin ydkar, og þad allgreinilega, røk edur ástædur fyrir því, ad heldur játa megi, enn nejta málsgreininni, er eg skrifadi á tøbluna?

Jón. O! vid høfum lesid fallega styckid um alstyrnda himininn í Vina-gledi, og vitum því þegar þrjár ástædur fyrir eina, sem sanna, ad jørdin hlýtur ad vera kringlótt.

Fad. Gott er þad ad heyra! í fyrsta máta:

Jón. Til eru þeir menn, sem ferdast hafa umhverfis jørdina.

Fad. En hvørnig gátu þeir þá vitad, ad þeir ferdast hefdu umhverfis jørdina?

Jón. Jú! af því þeir sigldu allt af í vestur, og komu þó aptur ad austan nidur í sama stad, hvadan þeir fyrst byrjudu ferd sína.

Fad. Rétt! af þessu gátu þeir til vissu vitad þad. Nú, hvør var ønnur ástædan?

Nikól. Má eg, Fadir gódur! — þegar menn ferdast sjóleidis, og fæerast æ lengra frá

frá landinu, hverfur þeim vonum bráðara allt undirlendið, sem siglt var frá. Smámsaman missir maður og sjónir á bæunum, því nærst á hálsunum, og að lyktum á enum hærstu fjöllum.

Fað. Nú, hvað leiðir af því?

Nikól. Það, að jörðin hlýtur að vera kringlótt.

Fað. Hvörnig það?

Nikól. Væri hún ecki kringlótt, svo ætti maður víst eins lengi að géta sjeð láglendið, sem mishæðirnar.

Fað. Rétt hefir þú fyrir þér, Nikólaus minn! — og nú að lyktum ena þriðju ástæðuna.

Guðm. O! hana sæ eg að segja! — þegar túngls-formyrkvan skéður, þá sjáum við skuggann af jörðunni í túnglinu.

Fað. Hvað kémur til þess?

Guðm. Það, að jörðin ber á milli sólarinnar og túnglsins. Allt eins og, ef eg stæði núna millum ljóssins og þilsins; þá bæri skugginn af mér á þilið.

Fað. Hvörja álycktun dregur þú nú af því, að við sjáum skuggann af jörðunni í túnglinu?

Gudm. Þá álÿktun: ad jørdin hlÿtur vera krínglótt.

Fad. Hvørnig þad?

Gudm. Jú! af því skugginn, sem vid sjáum af henni í túnglinu er líka krínglóttur?

Fad. Já! svo er þad! — nú, þid hafid þá greinilega og med røkum skilid ástæduna til þess dóms, er þid feldud; þad er því víst og satt, ad sálin ÿckar hefir greindar-krapt. Látid ÿckur vænt um þÿkja, børn mín! þetta eru aptur einir ÿfirburdir, sem gódur Gud unnt hefir oss mønnunum fram ÿfir allar adrar verur á þessari jørd.

Jón. Géta dÿrin þá ecki dæmt um neitt?

Fad. Máské þú haldir þau géti þad?

Jón. Eg veit þad ecki.

Fad. En þú vilt þó líklega fá ad vita þad?

Jón. Já! feginn vil eg þad.

Fad. Gott og vel! — mér dettur eitt medal í hug, hvørnig vid gétum komist ad því, án þess vid þurfum ad spÿrja ockur fÿrir um þad hjá nockrum.

Jón. Hvad skÿldi þad medal vera?

Fad. Eg hefi einhvørn tíma heÿrt, ad sálin ockar hafi einn ÿfrid staklegann krapt, med hvørjum hún fái af sjálfs-dádum upp-

gøtvad sannindi þau, sem hún aldrei hefir heyrt af ødrum. Menn segja nefnilega: ad þegar hún hafi fyrst komist yfir tvo hugar-dóma, svo géti hún hæglega af sjálfs-dádum dregid hinn þridja út af þeim sømu, sem enginn hafi nockurntíma sagt henni. Þenna krapt hennar kalla menn, krapt til ad álykta, ellegar komast ad einhvørju fyrir skynsemdar ályktanir. Nú skulum vid strax reyna til, hvørt sálin ockar hafi þenna krapt til ad bera, og hafi hún hann, hvørt vid þá gétum ecki uppgøtvad med honum: hvørt dýrin muni hafa greindar-krapt edur ecki? eg sagdi: ad sálin yrdi fyrst ad hafa tvo hugar-dóma, svo gæti hún hjálparlaust dregid hinn þridja af þeim. — Hér eru tveir hugar-dómar, sem eg ætla ad skrifa á tøbluna; géfid einúngis gætur ad, hvørt þid fáid af sjálfs-dádum dregid hinn þridja út af þeim.

Fyrsti: Hvørr, sem ecki gétur gjørt sér greinilegar hugmindir um hlutina, gétur heldur ecki dæmt um þá.

Annar: Dýrin géta ecki gjørt sér greinilegar hugmindir.

Þridji: Þess vegna — .

Jón. Þess vegna géta dýrin ecki dæmt um hlutina.

Fad. Sjáid nú! lítid á! Þar er þá kominn Þridji hugar-dómurinn, rétt eins og búid hefdi verid ad undirtala Það vid mann.— Hefir nockurr sagt Þér Það ádur? Jón litli!

Jón. Enginn.

Fad. Nú, svo hlýtur Það satt vera, ad sálin ockar egi Þenna staklega krapt; en er Það ecki rétt furdanlegt, ad vid skulum Þannig géta komist ad mørgum hlutum, sem vid fáum ecki vårir ordid med øllum ockar sansaverkfærum, og sem enginn madur hefir ockur sagt. Látum ockur snøggvast reyna til í ødru sinni. — Sjáid! hérna eru Þrír innsigladir bogglar; í hvørjum Þeirra eru svo og svo margir spil-peningar; Þid skulud ecki rifa Þá upp, já, ecki svo mikid, sem snerta á Þeim, og Þó vedjast eg um, ad sálin yckar gétur vitad Það med ályktunum, hvørt Það séu fleiri peningar í Þessum bogglinum, enn í hinum.

Nikól. O! Það gétum vid Þó víst ecki.

Fad. Það vænt'eg Þú haldir; sálin yckar orkar meiru enn Þid ætlid; Það skulud Þid strax fá ad sjá! eg verd einúngis ad géfa yckur tvo hugar-dóma fyrst, svo er eg óhræddur um Þann Þridja. Eg ætla ad skrifa Þá aptur uppá tøbluna fyrir yckur.

Fyrsti: Í enum fyrsta bogglinum eru hvorki fleiri né færri peníngar, enn í hinum odrum.

Annar: Í enum odrum bogglinum eru hvorki fleiri né færri peníngar, enn í hinum þridja. Nú -

Þridja hugar-dóminn: — þess vegna — Nikól. Þess vegna eru jafnmargir peníngar í þeim ollum.

Fad. Eru þá hvorki fleiri né færri í einum heldur enn odrum?

Allir. Nei! þad er jafnmargt í ollum.

Fad. Nú skulum vid sjá, hvort sálin ockar hefir álykt rétt: (hann rífur upp bogglana) í þessum eru nú — 6; í þeim odrum — 6 líka; og í hinum þridja —

Jón. Já! gátulaust, einnig 6! þad er þó, satt ad segja, hlæilegt.

Fad. Furdid yckur á þeim dásamlegu kroptum, sem sálin yckar er gædd med!

Gudm. Víst mun Gud ecki hafa gefid dýrauna sálum þenna krapt heldur?

Fad. Þad þarf eg ecki aptur ad ítreka fyrir yckur, því sálin yckar getur allt eins af sjálfs-dádum vitad þad.

Sinn. Þad líka?



Fað. Já, að vísu! gætið að! — eg hygg þið skiljið: að sá, sem ecki hefir greind á nockru, gétur heldur ecki ályktað; er ecki svo?

Jón. Ojú! — því vilji maður álykta, svo hlýtur hann sjálfur að minda þriðja hugar-dóminn.

Fað. Rétt! — nú, látum ockur þá aptur skrifa fyrst uppá töbluna.

Fyrsti: Hverr, sem ecki hefir greind til að dæma um nockurn hlut, gétur ecki heldur ályktað. Nú er spurníngin: géta dýr-anna sálir dæmt um nockuð eða ecki? hafa þær greindar-krapt?

Jón. Nej! það gətvuðum við nýskéð upp, að þær géta það ecki; þær hafa ecki greindar-krapt.

Fað. Svo veri það ockur þá annar hug-ar-dómurinn.

Annar: Dýranna sálir géta um eckért dæmt, þær hafa ecki greindar-krapt. Nú,

Þriðji: — þess vegna —

Jón. Þess vegna géta dýranna sálir ecki heldur ályktað!

Fað. Litið á! þar kom það fram! og hefir nú nockurr sagt ockur það?

Allir. Nej!

Fað.

Fad. Þad er því ad fullu sannad, ad sálirnar ockar hafi víst í sér krapt til ad álykta. Hvorutveggju þessa krapta hjá sálunni, nefnilega hennar greindar-krapt, og hennar ályktunar-krapt, gétid þid rifjad upp fyrir yckur, þegar þid sjáid regnbogann á loptinu, eins og vid töludum um í qvöld; og hvernig farid þid þá ad þenkja?

Nikól. Vid þenkjum um, ad sólar-geislarnir og vætu-damparnir í loptinu séu orsakirnar til regnbogans.

Fad. Yckur skilst þá, ad játa megi, en ecki nejta þeirri málsgrein, er þú komst nú med.

Nikól. Já!

Fad. Hvad giörid þid þá?

Nikól. Vid dæmum um nockud!

Fad. Þetta gétur þá fyrst og fremst minnt yckur á, hvad?

Nikól. Ad sálin ockar hafi greindarkrapt.

Fad. En þegar þid enn framar þenkid úti: regnboginn kémur af sólar-geislunum, og enum vætusömu dempum edur regndropum, sem nú í loptinu eru; en þegar miklir vætu-dampar eru í loptinu, þá er annadhvört strax, edur jafnadarlegast innan skamms von á regni, þad lætur því ad

líks

likindum, ad við fáum regn hér hjá oss í dag, edur á morgun, nema vindurinn burtfeyki regn-skÿjunum. — Skyldi nú svo vera, ad sálin yckar þenkti þannig, hvad gjerdi hún þá?

Þidr. Hún álÿktadi.

Fad. Rétt segir þú! hún álÿktadi. En ef við vildum nú skrifa uppá töbluna álÿktun þá, sem sálin yckar þannig þenkjandi gjörir, svo mundi hún nærfeldt vera þessi:

Fyrsti hugar-dómur. Þegar margir vætu-dampar eru í loptinu, svo er líklegt, innan skams komi regn.

Annar. Nú eru ad vísu margir vætu-dampar í loptinu.

Þridji. Því er líklegt, ad innan skamms komi regn. A hvada krapt í sálunni gétur sömuleidis þessi hugleidíng minnt ockur.

Allir. A álÿktunar-kraptinn.

Fad. Þidrik! segdú mér nú til, hvad eg á ad skrifa!

Þidr. Sálin ockar hefir líka greindarkrapt, til ad dæma med um hlutina.

Fad. Þad er?

Þidr. Hún gétur þeckt og skilid hvört einum hlut má játa edur nejta.

Fad.

Fad. Afram!

Pidr. Lokfins hefir sálin ockar líka ályktunar-krapt.

Fad. Í hvörju er hann fólginn?

Pidr. Í því: ad sálin getur af sjálfsdádum útdregid hinn þridja hugardóminn, af tveimur, sem hún þegar fengid hefir, þó enginn segi henni þad.

Fad. Agjætt! — svo er nóg komid í qvøld.

## Fjórda Samtal.

(Næsta Sunnudags-qvøld eptir, þegar allir sveinarnir vóru aptur samankomnir, og fadirinn var nú rett þegar farinn ad byrja samtalid, þar, sem þad lyktadi sídast, þagnadi hann skyndilega, vjek høfdinn út ad glugganum, og sýndist allt í einu hafa gefid sig allann vid, ad hlusta eptir einhvørju.)

Són. Hvad er þad — þarna?

Fad. Heyrid! hlustid til!

Allir. (fóru ad hlusta eptir, og allir kølludu upp í einu hljódi). Auh, Heylóin! þad er sú fyrsta, sem heyrst hefir til í vor!

Fad. (bendir þeim) Hægt! hægt!

Allir.

Allir. (þøgdu nú eins og fiskur, þángad til Heylóin sjálf hætti ad sýngja)

Fad. Hvad gjørdum vid núna?

Allir. Vid vórum ad hlusta til Heylóarinnar!

Fad. Hefir nú nockurr af yckur hugsad útí eitthvad annad, medan vid vórum ad hlusta til hennar?

Allir. Nej!

Fad. Sálin ockar hefir þá nidurkafid alla adra þánka, til þess hún gæti einúngis hugsad um Heylóarinnar dæilega saung; er ecki svo?

Allir. Jú!

Fad. Gétid þid sagt mér þad einúngis í einu ordi, sem sálin ockar hafdist nú ad?

Jón. Ojá! hún var gaumgjæfin.

Fad. Rétt! þar er þá aptur einn nýr kraptur hjá sálunni ockar; hún gétur géfid gaum ad einhverju; edur med ødrum ordum, hún gétur, þá hún vill, um eckért annad hugsad, enn rétt hid sama, sem hún í þad sinnid hefir lyst til ad hugsa útí.

Nikólaus. Þetta held eg víst ad dýrin géti líka?

Fad. Af hvørju álýktar þú þad? Nikólaus minn!

Nikól.

Nikól. Jú! reiſa ecki hundar og heſtar optſinnis eyrun, eins og þeir ſéu ad hluſta rétt med gaumgjæfni eptir einhvørju?

Fad. Þad gjøra þeir; og ad vïſu þenkja ſálir þeirra um eckért annad á medan, enn þad, ſem þeir eru ad hluſta edur horfa eptir; en ſegdú mér: hefir þú nockurn tíma tekid eptir, ad dýrin géfi gaum ad því, ſem ecki hrífur á eitthvørt ſanſa-verkfæri þeirra? t. d.: ad einhvørju því, ſem er fráverandi, ſvo ſem ad Mannbreytíngunum eda Samórins ýfirlæti, ſem gétur um í Vina-gledi.

Nikól. (hlær) Nej!

Fad. Ellegar ad einhvørju ødru, ſem menn øldúngis ecki fá ordid varir vid med ſanſa-verkfærum ſínum, jafnvel þó þad ſé nærverandi, ſvo ſem, til dæmis: géta þau géfid nockurn gaum ad þeirra, edur vorrar ſálar kreptum og eginlegleikum?

Nikól. Nej!

Fad. En — gétur ecki ſálin yckar géfid gaum ad einhvørju því, ſem fjarlægt er?

Nikól. Jú!

Fad. T. d.: þegar eg les fyrir yckur fráſøguna: Vaſcó de Gama, í Vinagledinni, gétur þá ecki ſálin yckar géfid gaum ad því, ſem þar er ſkrifad um Samórins búníng, ſidu, metnad og ýfirlæti? Nikól.

Nikól. Jú, ad víſu!

Jad. Og géfid þid nú ecki allir gaum ad því, ſem vid ſáum uppgøtvad um ſálina ockar, jafnvel þó hvörki heyriſt né ſjáiſt neitt af því, edur þeſs verdi ecki vart med nockru ødru voru ſanſa-verkfæri.

Nikól. Já!

Jad. Sálin ockar gétur því géfid gaum:

1.) Ad því, ſem í fjarſka er, og ecki nærverandi.

2.) Ad því, ſem ei verdur vart vid af nockru voru ſanſa-verkfæri, þó þad ſé rétt nálægt hjá ockur?

Allir. Já!

Jad. Og ad þvíllkum hlutum fá dýranna ſálir ecki géfid gaum! þeſs vegna er ærinn mismunur á ockar gaumgæfni, og dýranna gaumgæfni. Enn þá er nockud! haldid þid, máſké, ad dýrin géti rétt af egin ramleik tekid þad fyrir ſig, ad géfa gaum ad einhvørju? ellegar, med ødrum ordum: haldid þid þau géti af egin ramleik valid ſér hluti þá, er þau vilja géfa gaum ad?

Pidrik. Nej! ecki held eg þad!

Jad. Eg ecki heldur! því eg hefi aldrei ordid þeſs var, ad þau færi til ad géfa gaum ad nockru, fyrr enn þau knýjaſt til

þeſs

þess med einhvørju sanfalegu, sem hrífur á þau. — En sálin ockar, gétur hún ecki øldúngis af-eginn ramleik valid sér þad, sem hún vill verja gaumgjæfni sinni til ad yfirvega?

Allir. Ojú!

Fad. Nú gefum vid, t. d.: gaum ad sálar-kroptunum ockar. En undir eins og vid viljum, gétum vid hugsad um eitthvad annad. Þad er því komid undir sjálfum ockur, ad hvørju vid viljum géfa gaum, og hvad lengi vid viljum gjøra þad. Þar er því aptur ærinn greinar-munur á gaumgjæfni þeirri, sem sálin ockar er hæfileg til, og þeirri, sem dýrin láta í ljósi. Nú vil eg minna yckur á dæilegt dæmi í Vinagledinni, sem rétt er fallid til ad æfa þenna vorn sálar-krapt á, þid hafid lesid þar hid meistaralega samda stycki: Upplýsinguna? er ecki svo?

Allir. Jú! ójú! optar enn einusinni!

Fad. Og þó aldrei of opt! þar er, eins og þid munid, bls. 9—10. gétid um Apakétti þá í Indíunum, er kallast: Orang-utans, og eru þeir mjøg líkir mønnum í mørgu falli, eins og þar er umgétid. Nú, lestú sneggvast klausuna um þá, Jón litli!

ſvo vid hinir gétum allir géſid, ſem beſt gaum ad þeim. — Þarna er bókin! — nú, ſtillt og greinilega! —

Jón. (les og allir taka vel eptir).

Fad. Hvad gjørir nú ſálin yckar í þeſſu augnabliki?

Allir. Hún géfur gaum ad Apakéttinum.

Fad. En ſkyldi þad nú ecki koma yckur jafnframt í hug, ſem á er vikid í byrjun og endir þeſſarar lærdóms-ríku klauſu, ad hvad miklu leiti Apinn, einkum þeſſir umgétnu Orang-utans, edur Mann-apar líkjaſt manneſkjunni, bædi ad útvortis ſkøpulagi og innvortis ſálar edli, þegar eg bæti þeſſu vid, til ad gjøra yckar hugmind því greinilegri um hann, ad hann er nær því allur lodinn, gengur upprettur, er afſkaplega munnſtór, gamal-leitur og hrockinn í andlits-bragdi. Hvad virdiſt yckur nú um Apann?

Gudmundur. O! hann er ofur-líkur manneſkjunni.

Fad. Þid berid þá apans mind, og ſálar-edli, ſaman vid manneſkjunnar ſkøpulag og ſálar krapta; er ecki ſvo, ſem eg tilgét?

Allir. Jú! þad gjørum vid.

Fad. Og vitid þid, hvad menn kalla þad, þegar sálin hugsar fyrst med sér einhvørn hlut, sídan annann, og ber þá svo hvørutveggju saman í huganum? þad heitir: ad samlíkja einum hlut vid annann. — Hvad gjørdud þid þá rétt núna?

Matthías. Vid samlíktum apanum vid manneskju.

Fad. Og vegna hvers gjørdud þid þad?

Matth. Jú! vid vildum vita, hvørt, og ad hvørsu miklu leiti apinn væri svipadur manneskjunni.

Fad. Þad er: med ødrum ordum, þid vildud vita, hvørt, og ad hvørju leiti apinn og manneskjan væru hvørt ødru lík edur ólík; og þegar þid fórud ad þenkja útí þad, sem hann Jón litli las, og eg sagdi yckur, ad apinn gengi upprèttur eins og manneskjan, hermdi allt eptir eins og hún, lærdi handbrøgd og íþróttir eins og hún, þá fundud þid nockurskonar líkíngu med þeim, en þegar þid ad hinu leitinu sáud, ad apinn er lodinn, en manneskjan snegg, apinn getur ecki lært adqvæda-mál, og því ecki heldur talad eins og manneskjan, og hann hefir ecki skynsemi eins og hún, þá uppgøtvudud þid aptur líkíngarleysi edur mis-

mun þeirra á milli. Viljið þið vita, hvaða krapta sálirnar yckar brúka til þessa?

Allir. Ojá!

Fad. Sálin yckar brúkar sitt hugvit til þess að þeckja líkinguna, en skarpleika sinn til þess að komast að líkingarleysinu, sem er á milli mahneskjunnar og apans, eins og hvorra annara hluta; því með hugvitinu gjørum við ockur hugmindir um hlutanna líkingar, en með skarpleikanum, um þeirra líkingarleysi eður greinar-mun; og ef eg gét rétt til, þá hefir líka sálin yckar hvorttveggja þetta, eður hugvit og skarpleika til að bera. — Þó — það gétum við ecki vitað, fyrr enn þið hafið reynt til þess; látum ockur því snøggvast gjøra litla tilraun um það? beri nú hvorr yckar saman í huganum apann, sem við vórum að tala um, við sjálfann sig, svo fáum við að heyra hvorr yckar hefir best tekið eptir og sett á sig einhverja líkingu eður líkingarleysi á milli apans og manneskjunnar. Eg géf yckur stundar-korn, meðan eg geng út, til að hugsa yckur um. — Nú, Guðmundur minn! segðú fyrst, hvørs þú hefir orðið vísari?

Gudm. Apinn gengur upprèttur, og manneskjan gengur líka upprétt.

Fad. Þau eru þá lík hvørt ødru í því, og ad hvørju leiti eru þau þá hvørt ødru ólík?

Gudm. Apinn er nær því allur lodinn, en manneskjan er snøgg.

Fad. Gott er þad! nú, þú Matthías!

Matth. Apinn gétur ekid hjólbørum, skolad gløs, skenkt í þau og fært géstunum, rétt eins og manneskjan — í því er hann líkur ockur. En munnurinn á honum er lángtum stærri enn á ockur, og andlitid gamalt og hrockid — í því er mismunur á honum og ockur.

Fad. Líka er þetta gott! — nú kémur ad þér, Finnur litli!

Finnur. Apinn tekur gjarna allt eptir, vidlíkt og vid.

Fad. Í þessu er aptur líkt med honum og ockur, einkum børnum. En svo vid eydum ecki ofmiklum tíma, þá skal annar ockar segja upp líkínguna, en hinn mismuninn. Þú núna, Nikólaus minn!

Nikól. Apinn gétur ecki talad.

Fad. Rètt! aptur einn mismunur, Jón litli! meira!

Jón. Apinn er mjeg fús til ad læra, hartnær eins og manneskjan.

Fad. Hvad gétur þá apinn lært?

Jón. Eg las ádan, ad hann géti lært ad dansa á línum, leggja á bord, skara ad eldi, þvo upp matar-föt, skoda á stunda-kluckur, og kikja á stjörnur himins.

Fad. Þar er þá aptur ein líking, sem hann hefir med ockur; og nú þú, Pidrik! enn þá einhvörn mismun!

Pidr. Apinn hefir enga skynsemi.

Fad. Af hvörju leidir þú þad?

Pidr. Af því hann vantar þá sálar-krapta, sem med gódri rækt og brúkun, fá leidt til upplýsingar, til þeckingar á Gudi, á náttúrunni, á sjálfum sér, á dygdum og löstum, eins og vid heyrdum ádan!

Fad. Vel eptirtekid! vid gétum einnig leidt þad af því, hann hermir allt eptir út í loptid, án þess hann viti til hvörs hann gjöri þad, og bakar sér opt med því sjálfum skadrædi.

Nikól. Hvörninn? má eg spyrja, Fadir gódur!

Fad. Þid hafid ecki heyrt, hvörsu fávís-lega aparnir láta veida sig? Madur setur sig nidur undir tréd, sem aparnir sitja uppí,

og dregur skó eda socka á fæturnar, gengur svo burt, og skilur þar eptir, sem hann sat, eina smá-skó eda smá-buxur, sem klindar eru innan med tjøru. Ad vormu spori er apinn kominn þángad, og fer ad gjøra eins og hann sá madurinn gjørdi; dregur hann nú skóna edur buxurnar uppá sig, og varla er hann kominn í þad, fyrr enn hann finnur ad allt lodir fast vid sig, svo hann gétur nú ecki fært sig úr þvi aptur, og ecki heldur hlaupid, og hlýtur þvi ad géfa sig fánginn. — Ætla hann væri svo fávís, ef hann hefdi skynsemi?

Nikól. Þad gét eg ecki ætlad.

Fad. Eg ecki heldur! hann mundi víst hugsa med sér, ádur enn hann tæki þetta fyrir: hvad notar þér ad apa þetta eptir? og ætla þad sé þér ecki miklu framar skadlegt? — Nú, piltar litlu! eg sje gløggt af þessu, ad sálin yckar hefir nú þegar, eins og allra annara manna sálir, hæfilegleika til ad þeckja hlutanna líkingu og líkingarleysi edur mismun. — Segid mér nú aptur, hvad eg á ad skrifa á tøbluna ockar. Þidrik! byrja þú fyrst, og taki svo hvørr vid af ødrum í rød — nú!

Þidr. Sálin ockar gétur géfid gaum ad einu og ødru; þad er—

Fad. Biddú vid! medan eg er ad skrifa þad — nú, meira!

Pidr. Þad er: hún getur nidurkafid allaadra þánka, til ad gjøra sér hugmind um einn hlut sérilagi.

Jón. Nú kém eg! — Sálin getur líka borid einn hlut saman vid annann í huganum, til ad sjá, hvørt þeir eru líkir eda ólíkir. — Þegar hún —

Nikól. Onei! med þínu gódu leyfi, úngi Herra! nú kém eg! — Þegar hún skilur, ad hlutirnir eru hvørr ødrum líkir, þá gjørir hún þad med hugviti sínu; og —

Gudm. Biddú vid! þad er rétt handa mér! — og þegar hún skilur, ad hlutirnir eru ólíkir innbyrdis, þá gjørir hún þad med skarpleika sínum. O! egum vid nú ecki ad læra eitthvad meira um sálina ockar? fadir gódur! ecki er mjøg framordid enn þá!

Fad. Finnst þér þad? Gudmundur sæll! á Sunnudags qveldid kémur, ef vid lifum, þá vertú velkominn! í qvøld verdur þetta ad vera nóg! núna høfum vid æft sálina ockar nóg, takid ad eins vel eptir því, sem vid høfum talad um, og lesid enn einusinni Upplýsínguna í Vinaględi, þegar

þid

þið komið heim til yckar, þar er mörg ágæt hugvekjan í.

Jón. Faðir minn góður! enn þá verð eg að spyrja að einu: ætla dýrin hafi þá líka hugvit og skarpleika?

Fað. Sá, hvørs sál gædd er með hugviti og skarpleika, gétur ecki einúngis aðgreint hlutina hvørn frá ødrum, heldur gétur hann líka nafngreint auðkénni þau, fyrir hvør þeir aðgreinast hvørr frá ødrum; því ýmsir hlutir eru að því leiti líkir innbyrdis, sem þeir hafa en sømu auðkénni til að bera, og í því einúngis eru þeir sundurleitir, að sérhvørr þeirra hefir sín egin sérdeilis kénnimerki útaf fyri sig. Heldur þú nú, að dýranna sálir hafi hugvit og skarpleika?

Jón. Nej!

Fað. Hvørs vegna ecki?

Jón. Ih! vegna þess þau hafa engar greinilegar hugmindir.

Fað. Og þess vegna géta þær ecki heldur tekið eptir hlutanna einkénnum. — Svo er nóg í þetta sinn!

# Fimta Samtal.

Fadirinn. Gledjid yckur, børn góđ! í qvøld skulum vid aptur læra ad þeckja nockud, sem er yfrid merkilegt, um sálina ockar.

Allir. O! — hvad þá?

Fad. Vid skulum sanna, ad sálin ockar gétur, líka géfid gaum ad nockru.

Allir. Jh! þad høfum vid þegar heyrt á sunnudags-qvøldid var.

Fad. Auh! høfum vid? — þad skulum vid strax sjá; hvad er þad þá: ad géfa gaum ad einhvørju?

Pidrik. Þad er ad nidurkefja allar adrar hugmindir í sálunni, til ad gjøra sér hugmind um einn hlut sérílagi.

Fad. Þú svarar rétt! eg verd því ad trúa, ad þid hafid þegar heyrt þad ádur, eins og þid segid.

Allir. Þad er øldúngis víst og satt!

Fad. Látid yckur ecki þykja ad, þó eg byrjadi nú aptur á því. Fyrir þad hef eg komist ad raun um, ad sálin yckar hefir enn þá einn annann krapt, sem ad vísu ecki er minna í varid.

Jón

Jón. Hvørn helíst?

Fad. Sálin yckar endurkalladi nú eina hugmind, sem hún þegar fyrri haft hafdi; er ecki svo?

Allir. Jú!

Fad. Og hún kannadist undir eins vid, ad hún fyrir viku lidinni haft hefdi þessa somu hugmind?

Allir. Já!

Fad. Þad þyki mér vænt, því nú veit eg, ad sálin yckar hefir líka minni; edur: hún hefir þann krapt til ad bera, fyrir hvørn hún fær aptur framkallad hugmindir þær, sem hún ádur hafdi gjørt sér, er sér og jafnframt þess medvitandi, ad hún þegar fyrr meir haft hafi þær enar somu. Gjørdi sálin yckar þad ecki núna?

Allir. Jú!

Fad. Nú! hún hefir þá líka minni — og til þess ad verda enn vissari um þad, skulum vid á medan gjøra enn þá adra tilraun vid hana. Hafid þid nockurntíma séd Kufúngs-skél med Krabba í?

Allir. Ojá! ójá!

Fad. Hvørnig var hann á ad líta?

Gudmundur. Æ! lappirnar vóru ad qvika út úr Kufúnginum, og stundum sást á hefudid á honum. E 6 Nikól.



Níkólaus. Að öðru leiti var svo hörð á honum húðin eins og skél, og hann gèck allur út á hlidina.

Jón. Já! og Kufúngurinn, sem hann var að qvika innan í, var raudleitur að sjá, ofur fallegur, og rètt eins og hann væri með skrúfum að aptanverðu; lappirnar á honum krabba vóru ofur-lángar með hvössum klóm.

Fað. Nær sáuð þið þetta?

Allir. Í fyrra sumar!

Fað. Og hvar sáuð þið það?

Guðm. Finn. Nikól. Píðr. Matth. Í sölva-fjörunni.

Jón. Og eg út á grandanum. Þèr géngud víst sjálfur, Faðir minn góður! út þángað með mèr.

Fað. Eg man það. — Nú, þar rifjaði sálin yckar upp aptur fyrir sèr eina hugmind, sem hún þegar eitt skipti hafði hafði; og hún vissi gjörla um leið, að hugmindin um Kufúngs-skèlina og Krabbann var henni ecki ný, heldur hafði hún þegar einhvørn tíma haft ena sömu áður. Hvað heitir nú krapturinn, með hvörjum hún gjörði það?

Allir. Minnið.

Fad. Þar er þá aptur nockud til ad uppteikna! hvørt yckar vill segja mér fyrir?

Allir. Eg! eg! eg! eg!

Fad. Já, ef þid skyldud allir segja mér til í einu, þá mundi eg eckért af því skilja. Eg held vid verdum því aptur ad draga um þad. Fljótt nú! vid skulum hafa þad allt upp aptur, sem vid erum búnir ad læra um sálina ockar; sérhvørr yckar skal í rød, eptir sem ad honum kémur, nafngreina fyrir mér einn sálar-krapt sérílagi, og sá sem minnid hittir á, hefir unnid, og segi hann mér fyrir. (Børnin fóru í skyndingu yfir þad, sem undan var komid, og Nikólaus vann.)

Nikól. Auh! eg var heppinn! eg vann!

Fad. Nú, segdu mér þá fyrir, hvad eg á ad skrifa.

Nikól. Sálin ockar hefir og minni.

Fad. Legdú til, hvad þad sé med ødrum ordum.

Nikól. Þad er: hún gétur endurkallad eina hugmind, sem hún fyrr meir haft hefir, og fær undir eins vitad, ad hún hefir haft hana ádur einhvørntíma.

Fad. Nú, egum vid þá ecki aptur ad grenslast eptir, hvørt dýraunna sálir muni ecki líka hafa minni?

Allir. Ojú!

Jón. Eg held þær hafi það!

Fað. Segðú ockur þá undir eins rek fyrir meiníngu þinni:

Jón. Já! þegar madur hefir glettst vid hund annarstadar, og svo ber undir, ad madur kémur einhverntíma aptur á sama bæinn, sem þad skédi og hundurinn var, svo fer hann strax ad urra og vill bíta.

Fad. Þetta er sannreyndt; og þá sýnist raunar af því leida, ad hundurinn hafi minni. Eptir øllum líkindum, endurnýjar nú sálin hans hugmindina um hinn lidna ó-rétt, er madur gjørdi honum, og sýnist því vilja hefna sín fyrir þad. En mun hunds-ins sál vita líka greinilega, ad hún hefir ecki nú í fyrsta sinni þessa hugmind, heldur sé þad einúngis endurnýjud hugmind? hvad heldur þú um þad? Jón minn!

Jón. Nej! líklegt er hún viti þad ecki.

Fad. Hvørs vegna ecki?

Jón. Vegna þess dýranna sálir vita alls eckért greinilega; annars yrdu þær víst ad hafa skilníng.

Fad. Sé nú svo; þá hlýtur sálin hunds-ins, undir eins og hann vill hefna sín fyrir hina undanførnu áreitíngu, ad vera eins

skapi farinn, og þessi áreitíng væri nú fyrst gjørd honum; er ecki svo?

Jón. Jú!

Fad. Svo er hér þá audsjáanlegur mismunur á hundsins endurminníngar-krapti og ockar minni! sá nefnilega: ad hundsins sál gétur ad eins endurkallad enar fyrri hugmindir, en hún sær þó ecki þeckt þær aptur; þad er: hún veit ecki greinilega med sjálfri sér, ad hún haft hefir þá ena sømu hugmind fyrr meir; gétum vid þá, ætlid þid, eignad hundunum eginlegt minni?

Allir. Nei!

Fad. Að minnsta kosti ecki þvílíkt minni, sem vid høfum.— Mér dettur nockud í hug: hvernig féckstú mikla ørid, Nikólaus minn! sem þú ber þárna á kinninni?

Nikól. Æ! eg datt á svelli, þegar eg var ad renna mér med piltunum í fyrra, svo broddurinn á stafnum rakst upp med kjálkabeininu rétt inní munn.

Fad. Eg hefi heyrt þad! eg veit þad! en eg spurdi þig ad því þess vegna, ad þad gétur ockur vísbendíngu til ad uppgøtva fleira nýtt hjá sálunni ockar.

Nikól. Hvad gjæti þad verid?

Fad.

Fad. Svaradú mér fyrst uppá Það, sem eg nú ætla spyrja þig: þegar brodddurinn rakst uppí kinnina á þér, hvada hugmind gjerdi sálin þín sér þá um stínginn?

Nikól. Hún gjerdi sér hugmind um sárid og sárs-aukann.

Fad. Ætla þessi hugmind um sárid og sárs-aukann, sem þú fannst til, hafi legid þér í eins léttu rúmi, og þú sæir mig nú stínga nálinni hérna í bordid?

Nikól. Því fór ofurfjærri!

Fad. Þú hefir þá ecki fundid til neinnar velþócknunar, því sídur unadsemdar af þeirri hugmind?

Nikól. Nej! ó nej! mér rennur enn til rifja, þegar eg hugsa til þess, sem eg tók út, og hvad illa lá á mér af þessu slisi.

Fad. Hugmindin um þad, hefir þá ablad þér mikillrar óánægju! en í fyrra vor, þegar Presturinn gaf þér Edlis útmálun manneskjunnar, svo góda bók og vel vandada, í fallegu bindi, alla gyllta á kjelnum, og hrósadi þar hjá þinum framferum í þeckíngu og sidgjædi, svo fólkid heyrdi til; hvad haldid þid! ætla sálin hans Nikólausar hafi haft sömu hugmind þegar hann tók vid fallegu bókinni, eins og þegar hann

fékk

féck stínginn af broddstafnum, edur álitid Prestsins skynsama hrós med vidlíka tómlæti, eins og þegar hann Cerberus sladrar uppá yckur?

Jón. O nej! þá lá ofur vel á honum, hann kom strax fagnandi til mín, og qvadst verda meddeila mér sinni ánægju, tók bókina úr barmi sínum og sýndi mér hana, og sagdi hvad Presturinn hefdi talad vid sig um leid; í þad skipti fann hann því til mikillrar ánægju, en af áverkannm í fyrra hlaut hann ad hafa eins mikla óánægju; eg hafdi ecki eins mikid ad bera sem hann, og þó man eg lengi til þess qvölds, er slísid skédi, eg var þá vid, og mig hryllir allann upp ad hugsa til þess, svo ílla lá þá á mér og ockur öllum.

Allir. Já! Þá var engin gledi á ferdum.

Jad. Látid þad kénna yckur ad brúka betri gætni sídan, eins í leikum sem ödru. En — hvad vid ætludum ad segja? — sálin ockar lætur þá ecki allar sínar hugmindir liggja sér í sama rúmi; edur hún finnur til ánægju af sumum, aptur á mót til óánægju af ödrum?

Allir. Já! þad er víst.

Jad.

Fad. Viljid þid fá ad vita, hvad menn plaga ad nefna þvílíkar hugmindir, af hverjum sálin finnur annadhvert til ánægju eda óánægju? — menn kalla þær Tilfinningar.

Jón. Ah! aptur nýtt og nýtt! þad tekur ad vísu aldrei enda.

Fad. O! börn mín góð! sálin ockar er einhver ótæmanleg uppspretta af furdanlegum kreptum og eginlegleikum og gáfum. Þid munud hvad af hverju fá uppgötvad lángtum fleira hjá henni; höldum ad eins áfram! — Nú, — vid vórum ad minnast á tvær gagnstædar hugmindir, sem vakist hafa í sálunni þinni, Nikólaus minn! og, sem ollu þér í þad sinn ánægju- edur óánægju-tilfinningar, og mér sýndist ecki betur enn þad kæmi yfir þig öll deyfdar-merki, þegar eg fór ad minnast á áverkann, en aptur á mót gladnadi yfir þér, þegar eg gat um skeinkinn og hrósid, er þú fékkst hjá Prestinum; eda máské sálin þín géti endurkallad þær tilfinningar aptur á ný, sem hún fyrri haft hefir?

Nikól. Ojá! Þér getid rétt til. Þegar Þér nefndud áverkann, fór ad síga ad mér einhver óværd og hryllingur, rétt eins og eg fengid hefdi hann í dag; og aptur þegar Þér nefndud bókina og hrósid, sem

Prest-

Prestueinn minn gaf mér, tók eg strax að hressast, og finna til sömu ánægju í huganum, sem vaktist hjá mer af þessum óvænto skeink, í því eg tók við honum.

Fað. Eptir þessu leitaði eg! en ætla sálirnar ockar allra, géti eins og hans Nikólausar, endurnýjað fyrir sér, þær þægilegu eður óþægilegu tilfinníngar, sem við einhvörntíma fyrr meir haft hefum? það verðum við þó að vita til vissu! látum ockur sjá! — munið þið enn þá til, þegar þið fengud að sigla með mér og þeim feðrum yckar í kaupstaðinn í sumar?

Allir. Ojá! ójá! það géck lysta vel!

Jón. Þegar við vórum að beita við vindi, og skipið strauk áfram, svo freyddi að báðum síðum.

Guðm. Og hvörnig það dansaði á bylgjunum! það var engu líkara, enn verið væri að vagga ockur.

Þiðrik. Og hvað dæilegt var á að líta, er við sigldum fram hjá hæðunum og bænum.

Fað. Var það ecki rétt eins og húsin og hæðirnar hlypi fram hjá ockur, en við lægjum kyrrir?

Allir. Ojú! satt var það! þvílík lystileg reisa!

Fað.

Fad. Allt þetta hefir þá verid yckur ofrid ánægjufullt?

Allir. Ojá! meir enn frá megi segja!

Fad. Og þegar þid erud nú ad hugsa um þad, er þá ecki rett eins og þid séud á þessu augnabliki aptur á ferdinni, og smackid nú i ødru sinni ena sømu ánægju, sem þá?

Allir. Jú! sannarlega!

Fad. Þad ber einúngis á milli, ad þessi ánægja er hvørki eins mikil og yndæl, varir og ecki svo lengi, sem í þad fyrra skipti.

Allir. Nej!

Fad. Hvad hafa þá sálirnar yckar gjørt núna?

Pidr. O! eg veit þad! eg veit þad allt saman! hún hefir endurkallad þá tilfinníngu, sem hún fyrr meir haft hefir.

Fad. Víst og satt! og þessi tilfinníng var þá þægileg; — reynum nú til, hvørt vid gætum og líka endurnýjad hjá ockur einhvørja óþægilega tilfinníngu — kjæri minn Pidrik! segdú mér þó: til hvørs fann sálin þ'n fyrir þremur árum lidnum, þegar þú mistir hana módur þina?

Pidr. (tók þegar sárlega ad gráta, og hinum brá øllum, svo þeim sló í þøgn af medlidun)

Fad.

Fad. (eptir litla málhvíld) Þú hefir allt ofgyldar orsakir, Þidrik minn! til gráts, ad eg skyldi finna ad því; en gleym þó ecki, ad sá er mátinn betri til ad virda minníngu hennar módur þinnar sálugu, sem var þér svo góð, þegar þú, nefnilega, hagar þér þannig, sem hún á bana-sænginni óskadi ad þú hegdadir þér, til þess hún mætti á sídan eiliflega samlagast þér, er hún svo innilega elskadi, í hinum eilífu sælunnar hýbýlum— Nú, børn! hvad hefir sálin hans Þidriks litla gjørt núna?

Jón. Hún endurkalladi eina óþægilega tilfinníngu!

Fad. Rétt eins og sálin hans Nikólausar ádan! sálin ockar gétur þá hvorttveggja, hún gétur bædi endurnýjad fyrir sér þægilegar, og líka óþægilegar tilfinníngar, og í því augnabliki er hún svo skapi farin, sem hid sama hendti hana þá aptur.

Jón. En, med hvada krapti gjørir hún þad?

Fad. Med sínum ímindunar-krapti.

Jón. Hann mun vera hid sama sem minnid?

Fad. Spursmálid þitt sannar, ad þú verid hefir gaumgjæfinn og athugasamur.

Ad

Ad víſu er ſumt líkt med hvørutveggju þeſſ-
um kreptum; en látum ſjá, hvørt ockar
ſkarpleiki fær ecki líka var ordid einhvørs
mismunar innbyrdis þeirra á milli? —
hvørutveggju rifja eitthvad upp fyrir ſál-
unni; en hvad helſt? minnid endurkallar
hugmindirnar yfir höfud, ímindunar-krapt-
urinn þar á móti, einúngis þvílíkar hug-
mindir, fyrir hvørjar ſálin ocker finnur til
ánægju edur óánægju, þad er med ødrum
ordum — tilfinníngar. En framar: minnid
veit þad greinilega, ad ſálin hefir einhvørn
tíma ádur haft þær hugmindir, er hún nú
endurnýjar. Ímindunar-krapturinn þar
ámóti, einkum ſé hann ſterkur vel, kémur
því til leidar, ad ſálin gleymir, ad hún fyrr
meir haft hefir tilfinníngu þá, er hún nú
endurnýjar, já! gétur ímindad henni, ad
hún hafi hina ſømu nú í fyrſta ſinni, jafn-
vel þó hluturinn, ſem í fyrſtunni vakti þeſſa
tilfinníngu hjá henni, ſé nú ecki framar
nálægur hjá ſálunni. Þannig var því var-
id fyrir honum Níkólauſi ádan, og hon-
um Pídrik núna; ímindunar-krapturinn
lék ſálum þeirra þad bragd, ad íminda þeim,
ad þær findi nú fyrſt til ens ſama meins, ſem
þó er ſvo lángt lidid ſídan þeim tilfèll. Þeſs
vegna

vegna sáud þid honum Nikólausi brá strax, sem orid var nefndt, og hann Pidrik fór ad gráta, eins og hann gjordi, þegar hún módir hans dó. Skilur þú nú, Jón litli! hvornig minnid og imindunar-krapturinn mismuna hvort frá odru?

Jón. Ojá!

Fad. Nú skulum vid láta þar vid lenda í qvold.

Jón. En egum vid ecki fyrst ad teikna þetta uppá tobluna?

Fad. Jú, það er satt! eg var hardtnær búinn ad gleyma því; nú, segdú mér þá fyrir, hvad eg á ad skrifa.

Jón. Sálin ockar getur einnig haft tilfinningar; — á eg líka ad segja hvad tilfinningar séu?

Fad. Já, sjálfsagt!

Jón. Þad eru þvílíkar hugmindir, sem fá ockur annadhvort ánægju edur óánægju.

Fad. Er nú meira?

Jón. Enn framar: sálin ockar hefir líka imindunar-krapt; — þad er: hún getur endurnýjad fyrir sér tilfinningar, sem hún fyrr meir haft hefir.

Fad. Svona! nú skulum vid gánga til hvílu, mínir námfúsu úngu vinir! [2])

## Sjötta Samtal.

Jón. Fadir minn gódur! piltarnir vóru ad gjöra rád fyrir úti, ad spyrja Ydur ad: hvad ætti ad þýda hesturinn med vængjunum, sem er ad sjá þarna á kakal-ofninum Ydar?

Fadirinn. Hann á einúngis ad vera til prýdis, eins og ljónid þarna ad framanverdu, sem þú sjer.

Gudmundur. En eru þá þvílíkir vængjadir hestar til?

Fad. Nei! Meistarinn í Steypu-kunstinni, sem búid hefir ofninn til, hefir ímindad sér, ad þvílíkir hestar væru til.

Gudm. O! getur madur þá ímindad sér þvílíkt? Fad.

[2]) Til þess eg yrdi ecki allt oflángordur, hefi eg framvegis hætt, ad líkja manneskjanna sálum saman vid dýranna, og eg hugdi, eg kynni þad því framar gjöra, sem þvílík samlíking í eunum fylgjaudi samtölum, liggur nær því í augum uppi, og má því audgjörd vera hvörjum nockurnvegiun æfdum Frædara. Rithöfund.

Jad. Hvørs vegna ecki? — eg gét víst ímindad mér, eg siái þig rídandi stórum kalkúnskum hana, sem flýgur ígégnum loptid.

Gudm. Fyrir hamingju skuld! þá hefd eg yrdi skrid á sképnunni. — En þad er þó ecki satt!

Jad. Ecki! en sálin ockar gétur líka í-mindad sér þad, sem raunar ecki er til. T. d.: gétur þú ecki ímindad þér, hvørnig þad mundi líta út, ef eg hefdi svo lángt nef, sem nædi frá mér út ad þilinu þarna?

Gudm. (hlær) Ojú!

Jad. Og viltu fá ad vita, hvad menn kalla þann krapt hjá sálunni ockar, med hvørjum hún gjørir sér þvílíka hugmynd?

Gudm. Nú! hvad kallast hann?

Jad. Menn kalla hann hug-smída-krapt, og hinar undarlegu hugmindir, sem hún gjørir sér med honum, kalla menn hug-smídar.

Gudm. Má eg þá líka rétt einusinni koma med eina hug-smídi?

Jad. Já! í þetta sinn.

Gudm. Nú, eg íminda mér, hvørnig þad mundi líta út, ef sett væri parruk med stórum hár-púngi vid, uppá hanann hérna, og fengiun hattur undir vængiun og spjót vid sídunu. D Jad.

Fad. Það væri rètt eins narralegt tilsyndar, eins og konan hans, hænau, væri með skaut eins og Frú, og girdt belti með tveimur stórum spennum á.

Gudm. Sjá! þar hafdi Fadir gódur líka eina hug-smídi.

Fad. Víst og satt! eg hef, vidlíkt og þú, ǐmindað mèr það, sem raunar ecki er til. Vitid þid, hvørjir það eru, sem mest brúka sinn hug-smída-krapt?

Allir. Nej!

Fad. Það eru: Skáldin, Málararnir, Bílæta-smidirnir; munid þid eckért qvædi, sem hug-smídi kèmur fyrir í?

Jón. Æ jú! það er fallega qvædid í Gamni og Alvøru. — Hvad heitir það nú aptur? — mig minnir — Sumar-gledin.

Fad. Rètt! en hvada hug-smídi inniheldur það?

Jón. Jh! þar gjørir Skáldid sèr hugmind um módir ockar, jørdina, eins og konu, sem leggur af sèr sorgar-klædi, og býst um í skarti sínu, þegar svo adqvedur:

Þá mjallhvít úlpan meyrna hlýtur,
Vor módir lisnud býst í skart;
Grænblómgadann, fljótt búníng lítur
Hvørr bóndi um sinn jardar-part. rc.

Fad.

Fad. Þú gleymir fyrsta erindinu í þessu meistaral-ga qvædi. Þar er vor-sólin afmálud eins og fegur skrautlega búin Yngismey, sem med skínanda skarti sínu gull-málar umhverfis sig lopt og jørd, speglar sig tídum í kristall-speglum vatna og jøkla, mýkir med blídu sinni fredna og daufa ásjónu jardar, vekur af deyfd og laungum dvala med yl sínum og ljóma Ísa-land vort, og svo fr. Þú kannt erindid?

Vor-sólin þá í áttum øllum, 2c.

Jón. Já! mér þykir ofur vænt um þad! (hann les áfram.)

Fad. Vidlíka hug-smídi er og ad finna í qvædinu af Claudíus, sem heitir Vorid Þar gjørir hann sér hugmind um þad eins og mann, umvafinn blómstur-kransi, og á hvørs herdum situr Nætur-gali. Erindid er þetta:

Frá morgun-rodans
Føgrum ljóma
Árdegis hann kemur,
Ásamt honum
Fagnadir fylgja,
Í før ákafri;

Bendlad er hár hans
Blómstur-krønsum;
Um hans herdar
Hvíldir taka
Rett-rómadir
Nætur-galar.

Þegar þid hér eptir lesid eitthvørt qvædid í Gamni og Alvøru, edur hvar anna-

stadar, og þar kynni fyrir ad koma einhvør þvílik hug-smídi, þá segid mér til þess!

Allir. Já, gjarnan! því skulum vid ecki gleyma.

Gudm. Fadir gódur! má eg nú ecki segja fyrir í þetta sinn?

Fad. Látum sjá hvørt þú gétur þad!

Gudm. Ojá! eg hef vel tekid eptir núna! — sálin ockar hefir líka hug-smída-krapt.

Fad. Nú, og hvad á þad ad þýda?

Gudm. Hún getur gjørt sér hug-mind úm þad, sem ecki er til.

Fad. Gott er þad! eg hugsadi, þú mundir varla géta sagt mér þad svo skilmerkilega. Haldtú ad eins áfram ad vera svo eptirtektasamur!

Gudm. Já! þad skal ecki bregdast!

Fad. (tekur lúku sína fulla af fíkjum upp úr vasanum, án þess ad mæla ord frá munni.)

Allir. Ah! ah! hi! hi!

Fad. Hvad er þetta?

Allir. Æ! fíkjur!

Fad. Nú svo, fíkjur! (allir bída þeigjandi) ætla eg géti rétt uppá, hvad sálin yckar er ad hafast ad núna?

Allir. Nú, hvad þá?

Fad.

Fad. Hún gjörir sér hugmind um þad, sem hún hyrdir ecki um ad fá.

Nikól. Þad er rétt svo sem! nej, því fer ofurfjærri! hún gjörir sér hugmind um þad, sem hún fégin vildi fá.

Fad. Nú, svo hefi eg gétid skackt til! (hann tekur upp litlar eskjur, í hvørjum eru laukar, og heldur þeim fyrir vitin á þeim, hvørjum eptir annann.)

Allir. Fu! fu! fu! hvílik ólykt!

Fad. Nú mun sálin yckar hafa aptur haft hugmind um þad, sem hún fegin fá vildi?

Matth. Nej, um nockud þad, sem hún hyrdir ecki um!

Fad. Er þad svo? — þar hefum vid þá aptur stadid sálina ockar ad tvøfaldri sýslun. Fyrst gjørdi hún sér hugmind um þad, er hún fegin fá vildi. — Vitid þid, hvad menn kalla þad í einu ordi?

Allir. Nej!

Fad. Hún girnist nockud. Þar nærst gjørdi hún sér hugmind um þad, sem hún ecki hyrdti um, ellegar med ødrum ordum?

Jón. Hún girntist ecki eitthvad.

Fad. Betra: hana baud vid nockru. Hún hefir því líka, eins og þid sjáid, krapt til ad girnast sumt, og hafa vidbjód á sumu.

Þad er ad sönnu ecki ætíd hollt, ad veita henni þad, sem hún girnist; en í þetta sinn viljum vid þá láta eptir henni. Burt med ódauns eskjuna! híngad med fíkjurnar! — takid þær, þad stendur rétt heima fimm handa hvørjum.

Allir. Ah! þøck! þøck! kjærar þackir!

Fad. Og, hvad eg ætladi ad segja! mundir þú nú, Jón litli! hafa tekid eins gladlega vid, og etid fíkjurnar þínar, ef eins hefdi stadid á fyrir þér, og á þridjudaginn var, þegar þér var íllt, og þú tókst inn læknis-dryckinn, sem eg gaf þér, og varadi þig vid, ad borda sætindin, sem þér vóru gêfin sunnudaginn ádur, þvi þau væru þér óholl medan svo stædi á fyrir þér.

Jón. Nej! þá hefdi eg þenkt mig um ádur, og spurt Ydur ad, hvørt mér væru þær hollar, fyrst eg hefdi tekid inn í dag?

Fad. En, þegar þú tókst inn læknisdryckinn, lángadi þig þá eins í hann, og fíkjurnar ádan?

Jón. Nej! mig baud vid honum, eg gretti mig, og qveid sárlega fyrir ad smacka á staupinu!

Fad. Því kastadir þó honum þá ecki burt?

Jón.

Jón. Nei! eg hugſ̃adi mig fyrſt um, hvört þad mundi vera mér nytſamlegt, ef eg kaſtadi honum frá mér; og þegar Pér komud inn og ſøgdud mér, hann væri til heilſubótar, mér batnadi eptir, géck eg frá vilja mínum, og drack hann fús af í botn.

Fad. Þetta ſannar, ad þó ſálin ockar girniſt þetta, og hafi vidbjód á hinu, gét- ur hún ſamt fyrſt í hvört ſinn yfirvegad, hvört þad, er hún girniſt, edur hana býdur vid, ſé ſér nytſamt edur ſkadlegt.

Allir. Já! þad gétur hún.

Fad. Hún gétur þá gjört nockud þad, ſem henni er ógédfeldt, og látid þad ſumt ógjört, ſem henni er annars gédfeldt?

Allir. Já!

Fad. Nú, þad er gott! ſvo hefir hún þá vilſt frjálſræđi! gledjiſt af þeſſu, børn gód! þad er aptur einn veglegur eginlegleiki, ſem gódur Gud hefir gædt ſálirnar ockar med! ætla dýranna ſálir ſéu líka ſvo heppi- ſælar, ad hafa þeſſa gáfu, eins og vid?

Jón. Pad held eg ecki!

Fad. Þó vid annars viſſum þad ecki, gjætum vid ſamt lært þad af múſinni, þeg- ar hún lætur veida ſig í gyldrunni; hún rennur fyrſt á lyktina af agninu, hún ſjer

ad þad er ljúffeng fæda handa sér, sem sál-ina hennar lángar í; hefdi hún nú, eins og vid, frjálsrædi, svo mundi hún fyrst yfir-vega, hvørt þad væri sér raunar nytsamt edur skadlegt, ad eta af því, en nú fylgir hún einúngis girnd sinni, hún hleypur inn í stockinn, grípur í agnid, lokid dettur fyrir og — hún er fángin.

Gudm. Já, svona veiddi hún módir mín tvær fyrir skémmstu.

Nikól. Og ég sje opt, hvørsu heimskur Mátkurinn og Ritsan er, þegar þau láta veida sig í speldinu á sumrin.

Fad. Þessum sképnum er vorkun, þær hafa ecki skynsamt frjálsrædi eins og vid. Meira væri þad, ef manneskjan, gædd med frjálsrædi, og ødrum veglegum sálar-krøpt-um, breytti allteins yfirvegunarlaust og dýr-id; ef hún greinalaust gjørdi allt þad, sem hún finndi ad eins laungun hjá sér til, og léti þad allt ógjørt, sem hún hefdi vidbjód á, án þess ad yfirvega fyrst, hvørt þad væri sér raunar heldur nytsamt enn skadlegt; og ad hvørju gjørir þá þvílík ein manneskja sjálfa sig.

Jón. Ad skynlausu dýri.

Fad.

Fad. Rétt! — og þá mundi rétt viðlíka fara fyrir honum, eins og svo opt er vant að fara fyrir dýrunum, hann mundi steypa sjálfum sér í ógæfuna. — Þenkið eptir þessu, piltar litlu! og látið aldrei girndirnar ykkar draga ykkur á tálar, heldur takið fyrst ykkar skynsemi, af Guðs orði upplýsta skynsemi, og reyndra manna dóm, til ráðs með ykkur, í hvörjum helst hlut er þið girnist að hafa, eður býður við, og viljið ekki hafa; og æfið ykkur hvörndaglega í því, að gjöra ætíð eitthvað þarflegt, þó það vera kynni ykkur ógeðfeldt, og að láta ógjört eitthvað skaðlegt, þó það vera kynni ykkur geðfeldt, svo munuð þið dag frá degi verða fullkomnari, og jafnframt því hamingjusælli. — Látum ockur nú aptur fara gjæta að því, sem við lært höfum í dag. Pjetrik! segðu mér fyrir!

**Piðr.** Sálin ockar hefir og þann eginlegleika að girnast eitthvað.

Fad. Og hvað gjörir hún, þegar hún girnist eitthvað?

**Piðr.** Hún gjörir sér hugmind um nockuð það, sem hún gjarna vill só.

Fad. — Gjarna vill fá — meira?

Pidr. Sálin ockar hefir og þann eginlegleika, ad hana hydur vid sumu.

Fad. Og hvad gjörir hún, þegar hún hefir vidbiód á einhverju?

Pidr. Hún gjörir sér hugmind um nockud þad, sem hún ógjarna vill fá.

Fad. Er þá ecki meira?

Pidr. O,á! — sálin ockar hefir líka frjálsrædi; þad er: hún getur fyrst yfirvegad, ádur enn hún vill adhafast, edur ecki adhafast eitthvad, hvört þad mundi sér nytsamt edur skadlegt.

Fad. Egum vid ecki láta hér vid lenda í dag?

Allir. Æ! þad er of-snemmt enn þá, Fadir gódur!

Fad. Keinum minútum gét eg bætt vid ef vill. — Um hvad egum vid þá ad ræda? — já, þad er satt! mér dettur strax í hug. Vid heyrdum ad dýrin hefdu ecki frjálsrædi; þess vegna er þad, ad þegar þau adhafast eitthvad, svo gjöra þau þad ecki fyrir þá skuld, ad þau þecki þad sé þeim þarflegt, og þegar þau láta eitthvad ógjört, skédur þad ecki af því, þau hafi þeckingu á, ad þad sé þeim skadlegt; en svo verd eg þá, fyrir alla muni, fá ad vita, hvörs vegna

vegna þau raunar gjeri sumt, og hvørs vegna þau láti sumt ógjørt? hvad ætla, t. d.: kuþi Kitsuna til ad fljúga í speldid, og Músina til ad hlaupa inní gyldruna og eta af agninu?

Jón. Þad er af því lifrin smackast svo vel Kitsunni, og súra smjørid Músinni; þeim þykir þetta engin sora-fæda.

Fad. En af hvørju vita þau þá, ad þetta muni smackast sér svo vel? þau hafa þó, lángt frá ecki hugsad úti þad fyrri.

Jón. Þau munu líklega hafa optsinnis ádur bergt á þessari fædu, og kannast því gjørla vid hvørsu vel hún á vid góm þeirra.

Fad. En þau hafa þó, eins og vid vitum, eckért minni; þad er því allt eins og þau ættu nú í fyrsta sinni ad eta af þessu. — Og þarad-auki: hvørr kénnir fugla-úngunum, hinum litlu hænu- og andar-úngum, undir eins og þeir skrídnir eru út úr egginu, ad kornid smacki þeim vel, sem fyrir þá er kastad? og þó taka þeir strax til ad kroppa í þad.

Jón. Já! nú veit eg ecki.

Fad. Nú, svo vil eg segja þér þad: sjáid, úngu vinir! gódur Gud hefir þannig lagad dýranna sálir, ad þau hljóta girnast suma hluti, en fráfælast suma, þó ecki viti þau hvørs vegna? þessi girnd og þessi vidbjód-

ur, sem þau hljóta ad leidast af og fylgja, hvørt þau vilja edur ecki, kallast fýsnir eda Driftir [3]; þær hefir Gud gèfid dýranna sálum, til ad bæta upp þad, þau brestur á bord, ad því leiti, sem þau skortir skynsemi og frjálsrædi. Af fýsn þessari flýgur fuglinn í speldid, til ad eta af agninu, sem hann sjer þar liggja fyrir sèr; af fýsn sinni mundi hann fljúga á burt, undir eins og hann yrdi var vid eitthvad bæra sig í kríngum hann; af fýsn sinni byggja fuglarnir sèr hreidur, klekja út eggjum sínum og næra únga sína, þángad

[3]) Fýsn edur Drift (instinct) kallast þad innvortis adhald edur tilhneging náttúrunnar hjá mønnum og mál-leysíngum, sem knýr sálina til ad girnast og adhafast sumt, en fráfælast og láta sumt ógjørt, án þess madur þeckt fái orsakir, því sídur gjørt grein á nockrum skynsemdar ástædum, fyrir hvørjar sálin hagar þannig, en ecki ødruvísi, fyrirtækjum sínum; t. d.: þeim ed detta ætlar, verdur strax fyrir ad útretta høndina, til ad verja sig falli, án þess hann fái hugsad sig um fyrirfram, og getur því ecki greint røk til þessa fyritækis, nema hid innvortis adhald náttúrunnar: ad verja líkamann skada, og vernda líf sitt; hvad mjer virdist best svara ordinu Fýsn á vora túngu.

Þýdandinn.

ad til þeir eru stálpadir ordnir; af fýsn sinni byggir Bifurinn sér hús; af fýsn sinni safnar Bíflugan hunángi og geymir þad í kjöllurum þeim, er hún sjálf tilbúid hefir. Í stuttu máli: allt þad, sem dýrin adhafast, gjöra þau af fýsn, af einhvørju innvortis adhaldi náttúru sinnar, án þess þau viti hvørnig og hvørs vegna þau raunar gjöri þad; er þad ecki staklegt?

Jón. Jú! víst er þad staklegt.

Nikól. Hafa þá mennirnir engar fýsnir?

Fad. Um þad skulum vid sídar ræda, lofi Gud!

## Sjøunda Samtal.

Fadirinn. Þú vildir sídast vita, Nikólaus minn! hvørt vér mennirnir hefdum líka fýsnir; var ecki svo?

Nikólaus. Jú, þad var víst, Fadir gódur!

Fad. Vid skulum spyrja reisa-barnid ad því, sem skírt var í dag, og hún Þórun ljósa þess, heldur nú á uppá loptinu, mig grunar þad muni géfa ockur tilhlýdilegt svar uppá þetta. Kalladú á hanna snøgg-

vast híngad ofan med barnid. (Þórun kem-ur og heldur á barninu, setst nidur og fer ad gefa því ad drecka.)

Gudmundur. Nú, barn litla! höfum vid þá fyssnir, segdú til, ef svo er? —(hlær) jú fallega! þad þegir eins og steinn, og er ad totta pípuna sína.

Fad. Þad er af því, þú skilur ecki hvörju þad svarar þér þegjandi til þess; en innan skamms muntú skilja þad. — Hvad sagdir þú þad væri ad gjöra?

Gudm. Þad er ad totta pípuna og drecka!

Fad. Sálin þess synist þá gjarnan vilja fá eitthvad, edur girnast eitthvad?

Gudm. Já! mjólkina.

Fad. Og þó held eg sálin barnsins viti ógjörla sjálf, hvad þad raunar er, sem hún girnist ad fá; eg hygg líka ad hún viti eckért af því med sjálfri sér, hvörs vegna hún girnist mjólkina; og loksins virdist mér, sem hún viti sjálf nærsta ógjörla, hvörnig munnurinn barnsins fari raunar ad því, ad sjúga mjólkina úr ..irum uppí sig.

Nikól. Þad held eg líka; litlu börnin eru ad vísu enn þá svo heimsk!

Fad. Sálin barnsins þarna girnist þá nockud, þó ecki viti það vegna hvørs? og hún fullnægir þessari sinni eptirlaungun, þó ecki viti hún sjálf, hvørnig hún giøri það; er ecki svo?

Nikól. Ah, jú! nú sje eg gjerla, ad það er líka fýsn, sem þetta barn hefir.

Fad. Rétt. — En ef einhvørntíma bæri svo undir, ad í barns-askinum væri eintómt blek, edur hófblødku-vatn í stadinn fyrir mjólk; hvad haldid þid, mundi þá barnid eins ljúflega taka pípuna, og halda áfram ad sjúga ad sér, þegar það fundid hefdi smeckinn af þessu?

Allir. Onej! gátulaust ecki!

Fad. Og hvørs vegna ecki?

Matthías. Jh! af því hófblødku-løgurinn er svo rammur.

Fad. Mjólkin þarámóti sæt. — Barnsins sál girnist þá mjólkina, af því hennar nautn fær henni einhvørrar þægilegrar tilfinningar, og hún mundi fráfælast hófblødku-løginn, af því hann fengi henni óþægilegrar tilfinningar; er ecki svo?

Allir. Jú!

Fad. Og med hvørju fær nú sálin barnsins tilfinning af mjólkinni?

Jón.

Jón. Med smecknum.

Fad. Pad skédur þá med einu hennar sansa-verkfæri?

Jón. Já!

Fad. Þvílíka tilfinníngu, sem sálin fær, fyrir tilstyrk sinna sansa-verkfæra, kalla menn sansalega tilfinníngu. — Sálin barnsins knýst þá med þessari fýsn til ad hafna sumum sansalegum tilfinníngum, þeim nefnilega: sem henni eru ógédfeldar?

Jón. Já! það held eg víst.

Fad. Og vitid þid, hvad menn plaga kalla þessa fýsn? — hún gétur heitid: sansalegleika fýsn. [4])

Nikól.

[4]) Sansalegleiki (Sandselighed) er hæfilegleiki sá, ed sálunni er edlilegur, medan hún býr í líkama sínum, ad taka á móti þeim áhrifum, er hinir útvortis hlutirnir fá sønsunum, edur skilníngar-vitunum, ígegnum hvør þessar hlutanna áhrifur leidast inn í sálina, og qveikja þegar hjá henni eptirsókn og girnd til þeirra hluta, er þá fá henni gedfeldra tilfinnínga, en óbeit og leida á þeim, er abla henni ógedfeldra tilfinnínga. Pad er audsært, ad þvílíkar áhrifur útvortis hlutanna, er sansalegleikinn festir sig á, og dregur ad sér gegnum sansa-verkfær-

Nikól. Hefir þá fullorðna fólkið einnig þessa sýsn?

Fad. Vitum til! — eg varð þess vís í morgun, að nú séu adal-bláberin þegar full-varin orðin uppí skóginum. Lángar yckur ecki eptir að fá að smácka þau?

Allir. Jú! ójú, besti faðir!

Fad. En vegna hvørs lángar yckur svo mjøg í adal-bláberin?

Allir. Vegna þess þau smacka svo á-gæta vel.

Fad.

færin, bleckja opt og tíðum skynsemi gjædda sálu til að girnast útlits-góða hluti, en hafna sann-góðum, og er því sansalegleikinn rann-ar uudir-rótin til manneskjunnar sidalega ó-fullkomlegleika eður synda, þegar hann náir að fá yfirhønd yfir skynseminni. Þared nú orðið sansalegleiki kemur af sans eður sønsum, sem nú þegar farið er að fá borg-ar-rett í vorn máli, hefi eg, fyrir þá skuld, brúkað sansa-verkfæri í staðinn skilníngar-vita, hvørvetna er það orð hefir komið fyr-ir, svo þetta nýsmíðis orð, sansalegleiki, nædi að fá því einskorðaðri merkíngu, því varla mun í vorri túngu finnast það ein-sïakt orð, er jafnvægi se að merkíngu hinu mikilvæga danska orði, Sandseligheð.

Þýðandinn.

Fad. Það er þá vegna þess, að þeirra nautn fær yckur einhverrar þægilegrar sansalegrar tilfinníngar. — En, hérna hefi eg prýdilega snotrann penna-knif, sem er svo beittur, að eg gæti skorið með honum nef og eyrú af yckur; hefir nockurr yckar lyst til, að láta bera niður á sér?

Allir. Ecki eg! eg ecki! eg ecki heldur?

Fad Vegna hvers ecki?

Allir. O! vegna þess, það er sárt að láta skéra sig.

Fad. Það er þá vegna þess, það mundi abla yckur einhverrar óþægilegrar sansalegrar tilfinníngar! — nú, hvað haldið þið, mun sálin yckar líka hafa sansalegleika sýsn?

Þidrik. Ojá!

Fad. Hvers vegna?

Þidr. Vegna þess sálin ockar vill gjarna fá hinar þægilegu, en ógjarna hinar óþægilegu sansalegu tilfinníngar.

Nikól. Já! en við erum ecki heldur fullorðnir menn enn þá!

Fad. Nej! að sönnu ecki; en eg segi þér það fyrir fullann sann, Nikólaus minn! að mér og öðrum fullorðnum er viðlíka áháttað. Vér viljum líka allir gjarna eta Aðal-bláber eður hvað annað

er

er ockur ſmackaſt vel, erum og allir ofur-tregir til ad láta ſkéra nef og eyru af oſs. Vér fullordnu verdum þá eins líka hafa hina ſömu ſanſalegleikans fýſn, ſem þid hafid, og eins og reiſa-børnin litlu hafa. Nú, Gudmundur minn! hefir þá ecki reiſaſtrángian géfid ockur tilhlýdilegt ſvar uppá ſpursmálid ockar?

Gudm. Jú! þad held eg, þvílíkt ſvar, ſem hann gaf øldúngis þegjandi.

Fad. Hvørr yckar gétur nú ſagt mér þad, ſem vid lærdum núna af barninu? — en, bídum vid! þid viljid nú aptur gjøra þad all-irſaman; ſegid mér því fyrſt eitthvad, ſem ſanſalegleikans fýſn knúd hefir yckur í dag til ad gjøra; hvørr yckar, ſem fyrſtur man nú ad nefna þvílíkt, ſegi hann mér til.

Jón. Eg! — —

Fad. Nú, hvad þá?

Jón. Eg fór med piltunum uppí laug, og laugadi mig.

Fad. Gjørdir þú þad af ſanſalegleikans fýſn?

Jón. Já, ad víſu! gjørdi eg þad ecki vegna þeſs, þad fêck mér gédfeldrar ſanſá-legrar tilfinningar?

Fad. Rétt ſer þú! kom þá fram og ſegdú mér fyrir. Jón.

Jón. Sálin ockar hefir einnig fýsnir.

Fad. Bættú út'Kíringunni vid.

Jón. Pad er: hún finnur sig knúda til ad girnast suma hluti, en fráfælast suma, þó hún ógjørla viti, hvørs vegna.

Fad. Eina af þessum fýsnum hjá sálunni ockar, høfum vid nú þegar lært ad þeckja, og hvad hét hún?

Jón. Pèr sogdud hún kynni heita: sanfalegleikans fýsn.

Fad. Og í hvørju er hún innifalin?

Jón. Hún er í því innifalin: ad vid viljum gjarna hafa allar þægilegar, en ógjarna hinar óþægilegu sansalegu tilfinningar.

Fad. Agætt! — en, ad nockru ætladi eg ad spyrja þig: Matthías minn! varstú vid á dögunum, þegar skorid var ærlid af hálsinum á honum Gudbrandi litla hjá þèr?

Matth. Ojá! eg kénndi sárlega í brjósti um hann, vesælings piltinn!

Gudm. Æ! æ! þad hefir þó víst verid daudans sárt!

Fad. Hvørs vegna lét hann þá skéra sig, fyrst þad var svo sárt?

Matth. Honum var sagt: hann mundi annarskostar deyja, ef hann léti ecki skéra ærlid, og þá linadist hann. Fad.

Fad. En var honum þá ecki betra ad deyja, enn ad lída þvílíka sára pínu?

Jón. Jújú!— en — flestir kjósa þó firdar líf, medan audid er.

Fad. Hvørs vegna ætlar þú flestir kjósi þad?

Jón. Þad veit eg ecki.

Fad. Máské þad sé aptur einhvør fýsnin, sem gódur Gud hefir innplantad sálunum ockar?

Jón. Já! þad held eg.

Fad. Og þú hefir einnig rétt til ad halda þad! því mun ecki raunar þessi kærleiki til lífsins finnast hjá øllum mønnum? vilja ecki allir fegnir vidhalda lífi sínu svo lengi, sem þeir géta?

Jón. Jú! þad er bædi víst og satt; dagleg reynsla vitnar þad.

Fad. Og þegar madur er sjúkur, edur í einhvørjum lífsháska staddur, vill hann þá ecki feginn allt til vinna, allt lída, ef hann ad eins fær frelsad líf sitt med því?

Allir. Ojú!

Fad. Vid hefum því allir einhvørja medfædda girnd til ad vardveita lífid ockar, og einhvørja medfædda óbeit á øllu því, sem skadad getur vort líf. — Þessa girnd,

og

og þessa óbeit kalla menn sjálfsvarðveitslu fýsn.[5])

Guðrún. Ah, þar er þá þegar hinn önnur fýsnin!

Faðir. Víst og satt! en til hvörs, haldið þið þá góður Guð hafi géfið ockur þessa fýsn?

Jón. Til þess við skyldum lifa því lengur.

Faðir. Guð mun þá ecki vilja, að við sjálfir styttum líf ockar?

Þiðr.

[5]) Smá-sveinn nockurr óvenjulega hugaður og djarf-fær, sem enn þá var svo úngur, að hann ecki gat notið þessarar undirvísunar með hinum börnunum, var af hendingu nærstaddur, er verið var að tala um sjálfsvarðveitslu fýsnina. Til þess nú, að fá honum eitthvað að sýsla með, framsetti faðirinn, sem nú gefa vildi dæmi uppá fýsn þessa, fyrir hann þetta spursmál: Frantz litli! ef einhvörntíma kynni svo undirbera, að mann-ýgt naut hitti þig út í haganum, sem vildi elta þig, og reka þig ígegn með sínum laungu hvössu hornum; hvað ætla þú tækir þá til bragðs? — „eg skyldi „hlaupa á það aptur, og reka það um-koll,“ svaraði hann, sem þó enginn hefði leidt ser í hug, og það mátti sjá á útliti hans, að honum var það full alvara.

Rithöfund.

Þiðr. Nej! ella mundi hann ecki hafa gêfið ockur þessa sýsn.

Fað. Miklu framar hlýtur það þá vera hans velþocknan, að vér leitumst við að varðveita heilsuna, og lengja ocкar lif, svo framt við fáum aðgjört! — og munið þið enn þá, sem við lærðum fyrir skëmmstu, hvør meðøl væru best fallin, til að varðveita heilsuna ockar?

Nikól. Ojá! þegar maður er hóffsamur vel í mat og dryck.

Jón. Já, og þegar maður er yðinn og vinnusamur.

Guðm. Og þegar maður er vareygðarsamur um það, hann slasi sig ecki.

Matth. O! eg man enn þá eitt! þegar maður lætur ecki slá að sér ofmiklum kulda og dreckur ecki kaldt, þegar honum er heitt.

Fað. Rétt! hóffsemin, yðjusemin og vareygðin eru þá góðum Guði þócknanlegar? leggið þetta uppá hjartað, piltar litlu! og minnið yckur sjálfa á það, svo opt, sem þið freistast kunnið til að gjøra hið gagnstæða. Nú, Finnur minn! segðú mér fyrir, hvað eg á að skrifa á tøbluna!

Finn.

Finnur. Hin önnur fýsnin hjá sál- unni ockar, er sjálfsvardveitslu fýsn.

Fad, Og þessi fýsn knýr ockur til— til hvers? Finnur litli!

Finn. Til ad leitast vid ad vidhalda lífinu ockar, medan vid getum.

Fad. Gott er þad!— (hann gengur út ad glugganum, og hikar skyndilega vid, eins og sá, sem furdar sig yfir einhvørju, og spyr:) ... hvernig?—hvad er þetta?—hreindýrid.—

Allir. (spretta upp, og kalla hátt:) ó! hvar? hvar? hvar er þad?

Fad. Hvad þá?

Allir. Hreindýrid!

Fad. Hvada hreindýr?

Allir. Vid heldum Þér mundud sjá eitthvert hreindýrid!

Fad. Þad var ecki svo ad skilja! eg ætl- adi einúngis spyrja: hvad ordid hefdi af hreindýrs mindinni, sem eg lagdi hérna í gluggann, til ad sýna yckur?

Allir. (settust nidur aptur bánægdir) O! þad fór illa! vid héldum fyrir víst, þar væri hreindýr.

Fad. Þá fór, sem eg vildi, og þyki mér vænt, þid heldud þad; því nú hefir sál- in yckar aptur látid í ljósi nýja ágjæta fýsn,

fÿsn, sem vid enn þá ecki búnir erum ad þeckja.

Jón. O! hváda fÿsn gæti þad verid?

Fad. Vegna hvørs lángadi yckur svo mjøg eptir ad siá hreindÿrid.

Jón. Vegna þess vid høfum aldrei um ockar daga sied hreindÿr.

Fad. Þad er þá vegna þess, þad er yckur þvílik nÿlunda, sem þid aldrei fyrri sied hafid.

Jón. Já! þad er nú þad.

Fad. Hvad er þad þá, sem sálin yckar vill gjarnast siá edur heyra, eda í einu ordi: — hvad vill hún helst gjøra sér hugmind um?

Jón. Um eitthvad nÿtt!

Fad. Nú, þad er rétt hid sama, sem vid lærdum núna af henni, sálin ockar vill gjarna gjøra sér hugmind um eitthvad nÿtt, þad er med ødrum ordum: hún hefir Forvitnis fÿsn; og til hvørs ætla Gud hafi þá gefid ockur hana?

Nikól. Til þess vid skyldum læra margt og mikid.

Fad. Rétt! — en til hvørs vill Gud, vid skulum læra svo mikid og margt?

Nikól. Til þess vid verdum hyggnari af því!

Fad. Og því byggnari vid verdum, þess hægra veitir ockur, ad verda gódir; og því framar, sem vid komum kapps um, ad verda gódir, þess sælli verdum vid og líka. Gud hefir því gêfid ockur forvitnis fýsnina til þess, vid alljafnt verda mættum æ lucku-sælli.

Þidr. Nú sje eg þad var forvitnis fýsnin, sem knúdi ockur lags-brædurnar til ad leita uppfrædingar hjá Ydur, Fadir gódur! um sálina ockar.

Fad. Þú hittir rètt uppá, Þidrik minn! Því hefdi sálin yckar enga laungun haft til ad gjøra sèr hugmind um sjálfa sig, mundud þid vist ecki hafa haft fyrir því, ad koma híngad þess erindis, sem óskandi væri ad sem flestir fylgdu yckar dæmi í ad rækja; nú, Matthias! í þetta sinn vil eg lofa þèr, ad segia mèr til.

Matth. Æ! þad er vel farid, ad eg fæ loksins loka einusinni ad gjøra þad! — hin þridja fýsnin hjá sálunni ockar er forvitnis fýsn.

Fad. Og hvørju kèmur þessi fýsn til leidar?

Matth. Hún kèmur því til leidar: ad sálin ockar vill alljafnt gjarna gjøra sèr hugmind um eitthvad nýtt.

Fad. Nú er nóg í qvøld!

## Attunda Samtal.

Fadirinn. Nú er ecki ljós-módirin Þórun lengur vid høndina med reifa-barnid sitt, svo þid gétid lært af því eins og sídast.

Nikólaus. Hvad gætum vid lært af því meira, enn vid þegar lært høfum um sansalegleikans fýsn. Eg hugsadi vid mundum aptur í qvøld fá ad læra eitt-hvad nýtt um sálina ockar.

Fad. Forvitnis fýsnin er víst ecki ad-gjørdalaus hjá þér, Nikólaus minn! en, manstú hvørnig hún Þórun fór ad, vid barnid sitt sídast, er hún sat þarna, og var ad géfa því ad drecka, hvørnig hún leit svo hýrlega til þess, var ad kyssa þad, og dilla því? segdú mér nú: vegna hvørs hún gjørdi þad?

Nikól. Vegna þess hún er svo góð kona, og henni þótti svo ofurvænt um barnid.

Fad. Hún átti þó ecki barnid sjálf! en mun þá ecki foreldrunum þykja vænt um børnin sín, sem þeir ega sjálfir.

Nikól. Jú! ójú! því má nærri géta!

Fað. En, sá sem hverki er' lífs-móðir eða foreldri, hann mun engann hafa til að elska? t. d.: þú, þú, sem enn þá ecki ert orðinn faðir, þú hefir engann, vænti eg, sem þú elskar?

Nikól. Hef eg ecki foreldrana mína, þær systur mínar, og hann bróður minn?

Fað. En, ef þú ættir þau nú ecki heldur?

Guðmundur. Jh, hann ætti Yður samt til að elska, Faðir góður!

Fað. Þykir yckur þá raunar líka svo vænt um mig? (Börnin spruttu upp í kríngum hann og kystu hann) en ef foreldrarnir yckar, systkynin yckar, og eg, og allir þeir, ed þið elskið, dæu undir eins allt í einu, þá munduð þið framar enga manneskju hafa, sem þið gætuð elskað?

Guðm. O! þá væru þó enn nú aðrir menn til í heiminum?

Fað. En, ef svo kynni á að standa fyrir yckur, eins og dæmi eru til í sögunum, að þið hlytuð lifa á einhverri eydi-eyju, hvar alls engin manneskja væri; hvað þá?

Nikól. Já! þá skyldi eg hafa hundinn minn, edur, eins og gétið er um í Bertholds sögu, temja einhvern Apann, edur annað dýr, sem eg næði, mér til skémtunar.

Guðm.

Gudm. Og eg skyldi veiða einhvern fuglinn ef eg gjæti, og láta mér þykja vænt um hann.

Finnur. Og eg einhvern Papagóann.

Fad. Einhvern einn þarf maður þá, að minnsta kosti, haldið þið, til að láta sér þykja vænt um, ef hann á að lifa ánægður?

Allir. Já.

Fad. Og ætla aðrir menn séu þá sama sinnis?

Jón. Já! eg held svo sé!

Fad. Eg í sama máta, Jón minn! því svo margar manneskjur, sem eg hingað til séð hefi, þá hafa þær allar haft einhverja laungun til að elska annann, og verða aptur af øðrum elskaðar. Dýrin jafnvel sýnast ecki geta lifað, án þess þau með kjærleika sameinuð séu einhverju øðru dýri af sinu tægi.

Gudm. Ah! Æðarfuglinn þá og Andirnar!

Fad. Ecki einúngis þessi, heldur jafnvel hin villtu óarga dýr, Ljón og Tígrar, velja sér eitt af sinu tægi, sem þau innilega og ástúðlega umgángast við. — Einnig þetta blýtur víst að vera einhver fýsn, sem knýr bæði menn og skepnur til að elska hvørt annað innbyrdis? E 3 Allir.

Allir. Já!

Fad. Og hvad ættum vid ad kalla þessa fýsn?

Jón. Kjærleikans fýsn.

Fad. Agjætt! — en segdú mér þó: hvernig erum vid skapi farnir, þegar vid elskum einhvern annann?

Jón. Já! vid viljum gjarna ætíd vera hjá honum.

Fad. Þad er líklega vegna þess, vid finnum til gledi af honum?

Jón. Já! ecki um ad tala!

Fad. En þegar nú hinn, sem vid elskum, finnur ecki til gledi af ockur, þykir ockur þá vel ad fara?

Jón. O! nej! lángt er frá því.

Fad. Kjærleikurinn mun þá í því innifalinn, ad vid finnum til gledi af og yfir ödrum, og óskum, hann fái líka fundid til gledi af og yfir ockur?

Jón. Já.

Fad. T. d.: hvad mikid vilja ecki foreldrarnir yckar og eg, ad því leiti sem í mínu valdi stendur, vinna til þess, ad auka yckur ánægju! og hvad kysum vid framar, enn þid vildud jafnframt vera ockur til unadsemdar med yckar sidprýdi, og framför-

unn

um í øllu góðu? — finnið þið nú í yckar hjarta til hins sama ockur til handa?

Allir. Ojá, besti Faðir!

Fað. Það er þá víst, að við elskum hvørr aðra! og það viljum við einnig framvegis gjøra; því það fer svo dáfallega á því, þegar hvørjum manni þykir ofur vænt um annann innbyrðis, þá lifa menn tvøfaldt glaðari enn ella, og Guð finnur vissulega líka yfrið mikla velþócknun í því, fyrst hann hefir svo djúpt innprentað ockur, og øllum sínum lifandi skepnum kjærleikans fýsn. Hefði kjærleikurinn ecki verið honum svo mjøg þócknanlegur, mundi hann án efa hafa medskapað ockur haturs fýsn.

Guðm. Fy! það væri viðurstyggð!

Fað. Lof sé því Guði, að það ecki varð! — nú, Jón litli! leztú mér fyrir hvað eg á að uppteikna?

Jón. Fjórða fýsnin hjá sálunni ockar, er kjærleikans fýsn; það er: —

Fað. Nú, meira!

Jón. Það er: — en, eg gét ecki — eg gét ecki fundið rétt haganleg orð.

Fað. Vildir þú ecki nærfeldt haga orðum þínum þannig; það er: við høfum allir einhvørja medfædda laung-

un til ad elſka adra, og elſkaſt af ødrum?

Jón. Ach, jú! ſvona vildi eg hafa ſagt.

Fad. Edur máſké á þeſſa leid heldur; þad er: vid høfum allir einhvørja laungun, ad útvelja ockur hina edur þeſſa manneſkju, í hvørrar ſamfélagi vid finna kynnum gledi, og ſem aptur á móti hafa kynni ſína gledi hjá ockur?

Jón. Er þad ecki rétt hid ſama?

Fad. Fyllilega! — nú, ſegid mér nú, piltar litlu! um hvørn þykir yckur einkum og allra meſt vænt?

Allir. Um foreldrana ockar!

Fad. Skyldi nú ecki vera enn þá einhvørr einn til, ſem verdſkuldadi yckar kjærleika miklu framar, enn foreldrarnir yckar?

Allir. Ojú, þad er gódur Gud!

Fad. Vegna hvørs þá?

Jón. Vegna þeſs hann géfid hefir ockur foreldrana ockar, og allt, allt gott annad.

Fad. Og vegna hvørs elſkid þid þá foreldrana yckar?

Allir. Vegna þeſs þeir hafa líka gjört ockur ſvo mikid gott.

Fad. Ætlid þid gætud þá ecki hatad þann, ſem audſýndi yckur gott?

Allir.

Allir. Gud komi til!

Fad. Hvad mun þá koma til þess, ad vid verdum elska þann, sem audsýnir ockur gædsku og kiærleika?

Þidrik. Já! þad, ad hinn gódi Gud hefir þannig lagad sálina ockar.

Fad. Víst og rétt! Gud hefir þannig lagad sálina ockar, ad hún fær ecki annad enn elskad þann, sem ockur elskar, og giørir ockur gott. Þetta er þá víst aptur einhver ný fýsn, er vid varir verdum hjá ockur, þacklætis fýsn; er ecki svo?

Allir. Jú!

Fad. Viljid þid eg segi yckur fallega dæmi-søgu vidvíkiandi þessari fýsn?

Allir. Æ! fegnir, ofur-fegnir þyggjum vid þad!

Fad. Þid þeckid gód-mennid hann Magnús á Manndómsstødum! hann misti báda foreldrana sína, þegar hann var tæplega ársgamall, þau létu eckért eptir sig, sem børn þeirra giætu haft uppfóstur edur menningu af. Þá mæltu sumir ervætnir, sem vissu hvørnig á stódst, en íhugudu ecki, ad gódur Gud ber umsorgun fyrir øllum sínum skepnum: þetta vesalings barn hlýtur eflaust út af ad deyja, gátulaust mun

 þad

þad svelta í hel. Dánumadurinn og hefdinginn hann Gottlib, heyrdi á þessara manna tal, og jáfnvel þó hann væri ad øllu vandalaus barnsins burtsofnudu foreldrum, sendi hann þó strax þángad, sem þad var, lét koma med þad, og mælti: þessi piltur skal framvegis vera minn sonur, eg skal uppala han, og veita honum forsorgun med mínum egin børnum. Þegar stundir lidu fram, tók sveinninn ad þroskast; nú var hann þegar kominn á sjøunda árid; þá heyrdi hann, nú væri afmælis-dagur sins góda fóstur-fødurs. Strax brá hann vid, og hljóp inní afvikid hús, hvar hann var vanur ad sofa, kastadi sér nidur á knén, og bad gódann Gud rétt rækilega, ad hann vildi þó enn nú láta sinn góda fóstur-fødur lengi lifa. Eptir þad settist hann nidur, og skrifadi honum snoturt bréf til, í hvørju hann þackadi honum innilega, og af allri alúd fyrir allt og allt, sem hann gjort hefdi vid hann; geck svo inn fyrir fóstra sinn, kyssti á hønd honum og afhendti bréfid, og þackadi honum um leid med kløcku hjarta og gledi-tárum fyrir sig, og bad Gud launa honum dygd hans.

Gudm.

Gudm. O! þad var gódur, þacklátur piltur!

Jón. Þetta gjørdi hann af þacklætis fýsn.

Fad. Dýrin siálf sýnast jafnvel feng-id hafa nockud af þessari fýsn. Tidum er hann Cerberus ad fladra uppá þig, Jón litli! af því þú klappar honum, og gèfur honum opt drjúga sleikju úr askinum þínum.

Jón. Já, honum þykir ofur vænt um mig, hræ-tetrinu; ætíd fylgir hann mér, liggur undir rúminu mínu, og vidrar sig svo þacklátlega upp ad knjánum á mér.

Fad. Rétt eins og vildi hann segja: mér þykir ofur vænt um þig, gódi piltur! af því þú hefir audsýnt mér svo mikid gott! — sá hlýti því ad vera skynlausum argari, sem ecki vildi elska sinn velgjørda-mann, edur, sem gjæti jafnvel hatad hann.

Nikól. Fey! hann mætti vera skarnmenni.

Fad. Mikid skarn-menni! en vid viljum vona, ad þvílíkir bófar séu ecki til.

Gudm. O, þad held eg ecki heldur!

Fad. Nú, hvørr yckar les mér fyrir í þetta sinn? — þad skal sá gjøra, sem fyrst-ur segir mér dæmi-søgu uppá þacklátsemi, er hann annadhvørt heyrt hefir, edur lesid einhvørstadar.

Nikól. Ah! það er gaungu-madurinn, sem dró hann Þórd litla upp úr ánni.

Sad. Hvørnig var það undir?

Nikól. Jh! það var svo undir: Þessi madur kom einhvørsstadar ad þyrstur og þreyttur! hann gengur til hans Þórdar litla, þar hann situr hjá barna-húsinu sinu, med litla kørfu, er hann hèldt á, fulla af Adal-bláberjum. Þá mælti hann til hans: heill og sæll, piltur litli! seldú mèr eina eda tvær lúkur þínar af berjum, eg er svo ofur-þyrstur; og Þórdur svaradi: þarna, madur minn! taktú sjálfur svo margar, sem þú villt, eg vil samt enga borgun þiggja fyrir það af þèr. Daginn eptir lá hann Þórdur litli og einhvørr annar piltur med honum fram á árbackann, og vóru ad gutla þar med bátinn sinn; allt í einu sveik backinn undan þeim, og børnin hrópudu: hjálp! hjálp! allt tók nú ad sœkva. Í sama vetfángi kémur gaungu-madurinn ad ánni, stœkur úti vatnid, og nær í hárid á bádum drengjunum; en hefdi hann nú ecki sleppt ødrumhvørjum, svo hefdi hann sjálfur hlotid ad sœkva med. Já! hvørjum skyldi hann nú sleppa? hann hugsadi med sjálfum sèr: hann Þórdur gjørdi þèr gott

í gjær,

í gjær, honum hlýtur þú því ad bjarga fyrr enn hinum! hann sleppti svo hinum, og komst med Þórd heppilega til lands.

Fad. Þad var, eins og þú segir frá, þacklæti!—þú segir mér þá fyrir, Nikólaus!

Nikól. Sálin ockar hefir líka í fimta máta þacklætis fýsn.

Fad. Þad er:

Nikól. Þad er: hún fær ecki annad enn elskad þann, sem gjørir henni gott.

Fad. Mér hefir gleymst ad segja yckur eina hørmulega frásøgu, sem vidbar þegar eg var utanlands.

Allir. O! hvør ætla hún sé?

Fad. Þockalegur og ástsæll smá-sveinn nockurr, 6 vetra gamall, hafdi verid ad lúta út af glugganum á 3ja sal eda lopti húss þess, í hvørju foreldrar hans bjuggu, til ad skoda Mariinerlu breidur, sem var útundir þakinu, en ofurhátt var nidur. Allt í einu vard fram-hlutinn á honum þyngri, hann hrapar út fyrir, og kémur nidur rétt vid hlidina á henni módur sinni, sem stód á stéttinni fyrir nedan. Imindid yckur nú, hvørnig módurinni vard vid, er hún leit þessa hørmulegu sýn! hún rak upp hljód, og datt undir eins daud nidur vid sidunа á sínu slisada

 barni.

barni. Rétt þegar það var skéð, bar mig óvørum þángað að; var þar kominn mikill mannfjøldi saman; eg ruddist fram gégnum mannþraungina til að vita, hvørt eg gæti eckért lið veitt. En — góði Guð! — hvað gat eg þàr að líta! enn þá hryllir mig allann við að hugsa til þess! — høfuðskélin á barninu var moluð; slettumar af heilanum og blóðinu høfðu stockið uppá føtin hennar móður þess, sem lá við hliðina á því. Maðurinn konunnar, en faðir sveinsins lá með ópi og ecka á knjánum hjá henni, og við hliðina á honum dóttir hans 7 vetra gømul. Bæði tvø leituðust þau við að kalla ena dauðu til lífsins aptur, með þeirra ángistarfulla harmaqveini, og bæði vóru þau að sjá lángtum líkari liðnum mønnum enn lifandi. O! aldrei gétur mér fyrust úr minni þetta hryllega sjónar-spil féck mér í huganum! (sveinarnir dæsu þúngt við, og sumir fóru að vatna músum. Eptir lítla málhvíld) máské þið hafið heyrt þessa sorgarsøgu fyrri?

Allir. Nejnej!

Fað. Og þó fellst yckur líklega eins um það og mér, og hvørjum þéim, eð heyrir þessa rauna-søgu; — þið eruð hriggvir af henni? — eg vil þá aptur segja yckur annann

til-

tilburd, sem, gagnstædt hinu fyrra, valda mun ockur gledi:

Jón. Æ! já! fadir minn gódur og blessadur! vid erum allir gledi-þurfar núna.

Fad. Þegar eg eitt sinn var á ferda-reisu minni, mætti mér tignglega búinn höfdings madur, og med honum velklæddur þénari; og þar vid áttum samleid, svo ridum vid ásamt uns fyrir ockur vard lítilfjörlegt kotbreysi; en í því vid ridum framhjá, vard ockur litid vid, og sáum sitja fyrir dyrum úti dálitinn pilt, sem varla gat hulid sig med tötrum þeim, hann var í; andlit hans var svo føl-leitt, og gjørvallur kroppurinn svo holdlaus og magur, ad audsjed var, hann lidid hafdi mikid hardrétti. Barnskepnan útrétti sínar litlu hendur til ockar, og kalladi med veikri raustu: "æ! Herrar gódir! "æ! gefid mér nú eitthvad ofurlítid handa "honum fødur mínum, hann er svo naud-"staddur, hann liggur nú daudsjúkur inní "rúmi sínu, annars hlýtur hann víst, eld-"ungis víst útaf ad deyja! æ! gefid mér þó, "fyrir Guds skuld, dálítid!" Høfdings madurinn, sem eg umgat (mér er lidid úr minni hvad nafn hans raunar var; eg læt hann því heita Gjafmild Greidason) stód

vid

vid, og eg líka; vid komumst bádir allteins vid af því, ad sjá þetta barn, sem leit svo rádvendnis- og meinlauslega út, ad varla má ordum ad koma. "Hvørr er, vil eg "spyrja, hann fadir þinn? barnid gott!" mælti Gjafmildur. "Ach!" svaradi hinn úngi sveinn, "hann fadir minn er gódur "madur, o! ofur-gódur! ef Þér ad eins "gætud séd hann!" "En," spurdi hinn framar, "hvørs vegna hlýtur þú betla fyrir "hann? gétur hann þá ecki unnid?" "Æ!" ansadi sveinninn, og tárin streymdu ofaneptir vaungunum á honum, "hann vildi víst "meir enn feginn vinna, en hann er frá því, "hann gétur þad ecki, vegna þess hann hefir "nú fengid ógnar mikid sár á lærid, rétt "hérna fyrir ofan sjálft knébeinid, og því "gétur hann eckért gengid; hann fékk þad "fyrst í fyrrasumar, þegar hann flúdi med "ockur fótgangandi ad austan frá jardeldin- "um, og enn þá er þad ecki gróid." "Hefir "hann þá búid fyrir austan?" spurdi Gjafmildur. "Já víst!" ansadi barnid, "hann "var besti bóndi eirn í sveit, ríkur og vel- "metinn af øllum gódum mønnum, gaf og "hjálpadi medan hann gat, svo allir sóktu "til hans, allir elskudu hann; en hann "misti-

„misti allann sinn bjargar=stofn, eins og
„adrir, í jardeldinum, og hlaut því naud=
„ugur viljugur ad yfirgéfa hús og heim=
„kynni.“ „Hvad ætlar hann nú ad gjera
„af þér?“ spurdi Gjafmildur. „Ach!“
svaradi sveininn, „hann á bródur einhver=
„stadar á sudur=sveitum, sem sagt er sé ríkur
„hefdíngs=madur, en nú er hann ordinn svo
„sjúkur, ad hann gétur ecki spurt hann upp,
„og nú hljótum vid bádir ad deyja, eins og
„hún módir mín gód og hún systir mín, í
„hardrétti.“ Þegar svo var komid segunni,
sá eg hefdíngs madurinn Gjafmildur brá
litum í andliti, og knè hans tóku ad skjálfa.
„Hvad heitir — hvad heitir hann — hvad
„heitir hann fadir þinn? gódi drengur!“
kalladi hann hvad eptir annad, og tók í
hendina á barninu. „Hann heitir Góð=
„frægur Greidason,“ svaradi sveininn.
„Gud komi til!“ hrópadi Gjafmildur, og
sló saman hendunum, „þad er hann bródir
„minn!“ og tók undir eins barnsképnuna,
sem vegna ofur hrædslu ecki gat komid út
ordi, sér í fáng, umfadmadi þad og vætti
med tárum sínum. „Fljótt! fljótt!“ sagdi
hann, „vísadú mér inn til hans fedur þíns!“
og med því sveininn gat naumlega gengid

sak=

sakir þróttleysu, lét hann þénarann bera hann og géck sjálfur inn með. Eg þurkadi tárin af augum mér, og þackadi Gudi, sem gjørdi svo æskilegann enda á neyd þessara vesælings fedga; (børnunum hafdi runnid þetta mjøg til rifja. Eptir litla málhvíld) máské þid hafid sjed þenna svein?

Allir. Nej! ónej! lángtfrá!

Fad. Og þó gledjid þid yckur ad vísu eins mikid og eg, af því hann þannig óforvarandis hitti hann fødurbródur sinn.

Allir. Ojá!

Nikól. Mér þykir svo vænt um þad, eins og einhverr hefdi géfid mér fallega skjóttann fleygi-vakrann hest.

Gudm. Og mér, eins og eg hefdi fengid á, med tveimur snjóhvítum félegum lømbum.

Fad. Nú, sjáid þid hvad sálin yckar hefir nú aptur gjørt: fyrst hrigdist hún af því, þad fór svo báglega fyrir hinum fyrra sveininum, og øllu hans fødurs húsi, og nú gladdist hún á ný, af því hinn sídari sveinninn og hann fadir hans, urdu allt í einu svo happasælir. Takid þid nú vel eptir því, ad þetta kémur einnig frá Gudi, og hann hefir þannig lagad sálirnar ockar, ad þær hljóta gledjast af því, þegar ødrum gengur vel, og

hrigg-

hriggjast af því, þegar þá hendir eitthvad illt.

Allir. Já! þad er víst og satt.

Fad. Sjáid, piltar litlu! þad kallast Medtilsinníngar fýsn, edur hinn almenni legi mann-kjærleiki. Hann er af gódum Gudi þess vegna innprentadur sálum ockar, ad hann vildi vid skyldum allir eins og brædur, já, allt eins og børn eins fødurs, lifa ásamt hvørr ødrum, elska og adstoda hvørr annann, nær sem, og svo mikid sem vid gætum. Erud þid þá ecki loksins komnir ad raun um, ad þessi Gud verdur ad vera ástríkur Gud, fyrst hann hefir sjálfur skapad ockur til kjærleikans?

Allir. Æ jú! ecki um ad tala!

Fad. Og skiljid þid nú ecki líka, ad madur fær enganveginn verid þessum góda Gudi velþócknanlegur, nema hann sé vingjarnlegur og gódviljadur vid alla menn? — þad, sem þid nú lært hafid af sjálfum yckur, hefdud þid einnig gétad lært af dæmi-søgunni, er eg sagdi yckur fyrst ádan.

Jón. O! hvørnig þá?

Fad. Jú! af góda manninum, sem tók fátæka piltinn ad sér, og géck honum í fødurs stad.

Jón.

Jón. Það hefir hann gjört af medlíd-unarsemi.

Fad. Gátulaust! hann hriggdist, er hann heyrdi, þetta vesælings barn hefdi misst foreldrana sína, og hefdi því eckért ad lifa af. Þess vegna tók hann það ad sér. Nú sjer hann ad sveinninn muni einhverntíma verda góð manneskja, og þess vegna líka gjæfu-madur. og það sær honum nú gledi. Hann hefir því, eins og þid sjáid, rétt hina somu med-tilfinníngar sýsu, sem vid allir hofum.

Gudm. O, Fadir gódur! má eg ecki lesa fyrir í þetta sinn?

Fad. Jú, ef þú gétur í skyndingu leidt mér eitt dæmi til, af því, sem þú heyrt eda lesid hefir, ad einhverr hafi gjört nockud af med-tilfinníng.

Gudm. O, já! það gét eg, mér hefir þegar fyrir laungu komid það í hug! — Í sogunni af Alexander enum Mikla hef eg lesid, ad þegar hann sá daudt líkid hans Daríusar fjandmanns síns, grét hann af medlídun yfir því, ad svo hefdi farid fyrir honum.

Fad. Agjætt! — nú, lestú þá fyrir, hvad eg á ad skrifa.

Gudm. Sálin ockar hefir og, í sjøtta máta, med=tilfinningar fýsn; þad er: hún gledst af þvi er hún sjer adrar manneskjur gladar, og hriggist, er hún sjer adrar manneskjur vera hriggvar.

Fad. Dável fyrirleſid! — í þetta ſkipti er nú nóg komid! næſta ſunnudags-qvøld ſkulud þid koma ſvo ſnemma, ad þid gétid fengid mat med mér, ádur vid byrjum ſamtal ockar, og vid bordid ſkulud þid fá ad ſjá, ad ſálin ockar hefir enn þá adra fýſn.

Jón. Já! fýſn til ad eta og drecka! en hún mun vera hin ſama, ſem ſanſalegleikans fýſn?

Fad. Þad er rétt athugad; þó er enn þá ønnur ſú fýſn, ſem eg meina til. Seinna meira um þad!

Nikól. Hafid innilegt þacklæti ockar fyrir tilſøgnina, bodid, og allt! þetta var enn þá aptur æſkileg ſtund!

## Níunda Samtal.

(Nú, ſem ſveinarnir vóru ſamankomnir, og ſetſt var til bords, lángadi alla næſta mjøg eptir

eptir, ad vita, hvada sýsn þad mundi helst vera, sem fadirinn hefdi nú í hyggin ad útlista fyrir þeim, en enginn gat getid þess. Loksins slepptu menn því, og ræddu um adra hluti. Undir þad lokid var máltid, tók fadirinn knífinn sinn og gaffalinn, og lagdi þá í kross yfir skjerdiskinn. Sá, sem nærstur sat honum, vard þess varla fyrr var, enn hann lagdi eins knífinn og gaffalinn sinn; hans sídu-bródir apadi þad sídan eptir honum, og þannig umhverfis bordid; þá brosti fadirinn, og gaf, eins og hann var vanur, merki til þagnar.)

Fadirinn. En hvernig datt yckur øllum þad í hug, rétt allt í einu ad leggja svona knífinn og gáffalinn yckar?

Jón. Eg tók ecki fyrstur uppá því.

Finnur. Eg gjørdi þad, af því hann hafdi þad fyrir mér.

Pidrik. Og eg, af því hann Gudmundur gjørdi þad.

Gudmundur. Já! og eg, af því Pèr gjørdud þad sjálfur, Fadir gódur!

Fad. Pid hafid þá allir gjørt þad, sem þid saud annann gjøra fyrir yckur?

Allir. Já! sjálfsagt.

Fad. Og þó hefir enginn sagt yckur ad gjøra þad?

Allir.

Allir. Nej! lángt frá.

Jad. Vegna hvørs gjørdud þid þad þá?

Jón. Já! þad er skrítid, ad þegar einhvørr gjørir eitthvad fyrir ødrum, er eins og hann verdi ad hafa þad eptir!

Jad. Hefir þú tekid eptir því? — og þarf eg enn þá fyrst segja þér, hvada fýsn þad sé, sem eg lofadi sídast, ad sýna yckur í qvøld?

Jón. Ah, nú veit eg þad! þad er: eptirbreytingar fýsn.

Jad. Segdú heldur: þad sé Eptirøpunar fýsn. Líka hefir sálin yckar hana sameginlega med øllum ødrum sálum manna.

Nikólaus. O, einnig líka med Apanna sálum! þær herma og strax allt eptir, sem þær sjá fyrir sér.

Jad. Víst og satt! þessi fýsn lætur sig einna helst í ljósi hjá børnum og apakøttum. Þid sjáid þá, hvílíkum Herrum þid erud svipadir!

Matthías. Já! þeim Herrum, Apakøttum!

Gudm. Sej, sej! eg vildi feginn vid hefdum ecki þessa fýsn!

Jad. Segdú ecki þad af alvøru! því ef þid hefdud ecki þessa fýsn, svo mundud þid ald=

aldrei um yckar daga, verda stórt hyggn=ari, né betri enn aparnir.

Pidr. Hvernig á ad skilja þad?

Fad. Af hvørju verdid þid dag frá degi hyggnari og betri? er þad ecki einkum af því, þid g'ørid þad, sem þid sjáid reynda menn og skynuga hafa fyrir yckur. Myn ecki satt?

Pidr. Já! víst er þad.

Fad. Pad er þá fyrir eptirøpunar fýsnina?

Pidr. Já! en því verda þá ecki aparn=ir hyggnari fyrir hana?

Fad. Pad er søkum þess, ad sálin þeirra gætur einúngis apad eptir útvortis hlut=unum, limaburdum og athøfnum, en ecki hinum innvortis ósýnilegu þanukum og meiníngum; og þad er þeim ecki unnt, fyr=ir því þeir hafa enga skynsemi.

Gudm. Ætla vid verdum þá ecki lengst af þvílíkir apar?

Fad. Laungun sú, ad apa eptir ødrum, varir ad sønnu allt af, jafnvel þó menn verdi fulltída ad aldri, en þá fullnægja menn henni ecki svo brádt, eins og þeir pløgudu ad gjøra medan þeir vóru úngir. Miklu framar gæfa menn fyrst gaum, ad, hvørt þad muni í nockru þarflegt vera, ad

apa

apa eptir ødrum í þinu og þessu; og sjái menn það til engra nota þorfa, láta þeir það vera.

Finn. A eg ecki að taka ofan tøbluna, Faðir góður! til að uppteikna á þana þetta líka?

Fað. Gjørðú það; en hugsaðú þig undireins um dæmi af sjálfum þér uppá þessa fýsn.

Jón. Eg gét strax komið með eitt; þegar eg var að byggja mér hús, smiðju og búr og skémmu eins og eg sá Pér gjørðuð, Faðir minn!

Finn. Og þegar eg var að stússa við kýrnar mínar, nauts-leggina, heyja fyrir þeim, binda og bera heim, eins og foreldrarnir mínir.

Þiðr. Og ecki er lángt síðan, eg var að útbúa skipið mitt, að árum, stýri, segli og øllum farvið, eins og þann faðir minn gjørði við stóra skipið sitt í vetur!

Fað. Og géfið með þessu til kynna, að sálirnar yckar hafa þá haft, eins og áðan við borðið, eptirøpunar fýsn.

Finn. Svo sje eg það er; að þessu sinni má eg þó segja fyrir, fyrst eg sókti tøbluna, og kom með dæmið.

Fad. Þad gëfur þër víst enn nú eng-ann frum-rëtt; en ef þú gëtur rëtt og reglulega rakid mér allar fýsnirnar sjø, sem vid þegar lært høfum ad þeckja, þá má þad svo vera.

Sinn. Nú, já!

Fad. Þú, Jón litli! stattú bak vid hann, svo þú gëtir hjálpad uppá, ef í naud-irnar kynni reka fyrir honum.

Sinn. O, eg óttast ecki svo mikid fyrir því eg strandi! (hann framtaldi þær allar skírt og skilmerkilega.)

Fad. Þad fór ágjæta vel! segdú mér þá fyrir!

Sinn. Sjøunda fýsnin hjá sálunum ockar, er eptirøpunar fýsn.

Fad. Og til hvørs heldur hún ockur?

Sinn. Hún heldur ockur til, ad hafa þad eptir, sem vid sjáum annad fólk gjørir.

Jón. O! egum vid nú ecki strax fá, ad læra eitthvad meira?

Fad. Nej! nej, Jón minn! í þetta skipti er nóg komid.

Jón. O, þad er ecki hálf stund sídan ádan!

Fad. Fyrst vid høfum nú þegar nóg lært ad þessu sinni, og enn er góð stund til

sólar-

sólarlags, skulum vid verja því, sem eptir er af deginum, þessum fagra dýrdar-degi, til litillrar gaman-reisu.

Allir. Til gaman-reisu? o hvört þá? hvört þá?

Fad. Til ad gánga, ockur til skémtunar ofan ad sjó, og þadan út med øllum bøckum, svo vid gétum sem best sjed út yfir fjørdinn, sjed hvørsu náttúrlega hann hringvefur sig inn eptir øllu, til ad flytja laxinn og blessunina, sem lengst innf landid; hvørsu vogarnir og víkurnar eru til ad minda eins og lausa-skurdur fram med øllu, og hvørsu Laxinn og Urridinn eru ad létta sér og leika vid flædar-málid; og þá er engin óskémtan ad heyra klidinn og qvakid í fuglunum út um allt. Visast er, eg láti og taka bát, og fari á honum í varphólmann ym leid; viljid þid koma med?

Allir. (hoppa upp af kjæti, og klappa saman høndunum) oh! hjartans fegnir! o! slík og þvilík skémtan!

Fad. Þad fer vel, ad mitt áform fær yckur svo mikillrar ánægju. En — búid yckur þá til! — þó, skjaldan plagar nockur sú gledi ad fyrirhitta ockur menniná í lífinu, sem ecki hafi einhvør eptirkøst. Optast læd-

 ist

ist einhvør óánægjan eptir henni, sem traudt mun verda vid hana skilin. (öllum hnickti vid) Þannig, t. d.: gétum vid nú ecki allir komist á bátinn í qvøld — tveir edur þrír verda þá láta sér lynda ad sitja eptir. (nú datt ofan yfir alla) Og hvørr á nú ad verda fyrir því? (allir þegja) eg veit engin úrrædi betri, enn vid drøgum um þad.— Sækid spilin! hér er spil á mann! dragi nú hvørr yckar eitt spil á grúfu! hvørjum sem vill til raudt, komi hann med; en hvørjum sem hlotnast svart spil, sitji hann eptir. Erud þid ánægdir med þad?

Allir. Já!

Þad. Nú vel! þá dragi hinn yngsti fyrst, og svo hvørr af ødrum allt til hins elsta. Svo! — svo! (hvørr dregur sitt spil, sumir hoppa af kjæti; hinum, sem svørtu spilin vildu til, fór ad síga brúnin.) Nú er þad búid! — en, hvad er þetta? hvørnig, Jón litli! og farinn ad gráta! — ecki er slíkt karlmannlegt; þær ógjæfur, sem vid høfum ecki sjálfir bakad ockur, gétum vid umborid med meiru þolgjædi.

Jón. Eg skal líka! — (þurkar af sér tárin, og þvíngar sig til ad brosa.)

Þad

Fad. Gott! en þid hinir, hvernig liggur á yckur af þessu? haldid þid yckar ánægja verdi rétt fullkomin í qvøld, fyrst nockrir af þeim vinum yckar, géta ecki nád hlutdeild í henni med yckur?

Allir. Nej!

Fad. En, ef vid slægjum nú hólmiaferdinni á frest til einhvers annars dags, þegar foreldrarnir yckar kynnu-lofa yckur koma, og fara med, en gaungum heldur, eins og eg sagdi, nidur ad sjó, og út á backa.

Allir. Ojá! já! nidur ad sjó

Fad. Búid yckur þá til. — En, bídid vid! þar var víst aptur eitthvad nýtt hjá sálunni ockar? bídid eitt augnablik fyrst, medan vid erum ad hugsa eptir því! — hvad giørdi nú sálin yckar, þegar eg sagdi vid skyldum gánga út til skémtunar, og fara í varp-hólmann?

Nikól. Hún gladdist.

Fad. En þid børn, hvad gjørdi sálin yckar, þegar þad kom á yckur, ad sitja eptir?

Jón. Hún hrigdist.

Fad. Og ofan í kaupid, hefir þad líklega verid einhvør stórkostleg gledi, og stórkostleg hrigd, sem þid fundud til.

Allir. Já, meir enn ad mæla!

Fad. Fannst yckur ecki öllum, ad blódid í yckur færi ad hlaupa lángtum fliótara, og hjartad, þad slægist hardara?

Allir. Jú, þad var víst og satt!

Fad. Og þenktud þid þá um nockud annad, rétt á medan gledin var sem brádust; og þid hinir, rétt í því hrigdin var sem ákøfust fyrir yckur?

Allir. Nej!

Fad. Var þad ecki rétt eins og þid heyrdud hværki né sæud neitt annad í heiminum?

Allir. Jú, rétt eins!

Fad. Viljid þid fá ad vita, hvad menn kalla þvílíkt ásigkomulag hjá sálunni ockar, er hún gledst og hriggist svo mjeg, svo ákaflega girnist edur fráfælist eitthvad, ad hún gétur um eckért annad hugsad, heyrir hværki né sjer annad, og blódid í ædunum fer ad hlaupa mun fliótara? — menn kalla þad Géds-hræríngu edur Sinnis-lidun. Sálirnar yckar vóru þá í géds-hræríngu núna; yckar, sem drógud heppilega, vóru í Gledinnar Géds-hræríngu; en yckar, sem áttud ad sitja eptir, yckar sálir vóru í Hrigdar Géds-hræríngu.

Gudin,

Gudm. O, Fadir gódur! egum vid ecki líka ad skrifa þetta upp, fyrr enn vid gaungum af stad? vid kunnum annars gleyma því!

Fad. Komid, medan vid erum ad taka hattana ockar, eg ætla líka ad segja yckur dæmi-sögu uppá þessar 2 geds-hræríngar; svo skulum vid skrifa þad á töbluna: Í kaupstad nockrum vóru tvær konur, hvörra menn sigldt höfdu bádir med einu skipi lángt útí Midjardar-hafid til kaup-verdslunar. Nú var þessa skips aptur von á hvörjum degi; sú von vard og ad sönnu, skipid kom og lagdi inn á höfnina. Allir, sem þar áttu hlut ad, urdu fegnir vid, þó enginn fegnari, enn umgétnar konur, sem nú höfdu mátt sakna manna sinna í heilt ár. Bádar skundudu þær nidur til stranda, undir eins og þær sáu skipid hafna sig, til ad vita hvört þeirra ástfólgnu ektamakar væru aptur komnir heilir og hraustir. Hvörsu mikil var nú ecki annarar þeirrar gledi, er hún stód fremst fram á bryggjunni, og sá manninn sinn á þilfarinu! hún breiddi út fadminn á móti honum, og svo var hún glöd, ad hún ógjörla vissi, hvar hún var stödd, og hefdi víst í þessari gledinnar ölværd,

 steypt

steypt sèr út af bryggjunni, ef hann nábúi hennar, sem stód þar hjá, hefdi ecki aptrad henni; eckért minni var gledin fyrir manninum hennar, er hann sá þar aptur sína heittelskudu konu. Hann hljóp med fadminn á móti henni ytst út á bord-stockinn, svo enginn hugdi annad, enn hann mundi steypa sèr útbyrdis; í einu ordi: þau vóru bædi tvø í hinni ákøfustu gledinnar géds-hræríngu. Nú er ad segja frá hinni konunni; hún vonadi eins líka hún fengi ad umfadma sinn unnusta heilann og hraustann, eptir svo lánga útivist. En, veslings konan! hvilíkt reidar-slag var henni þad ecki, er hún heyrdi einn af skipverjunum kalla til sín, ad hann dottid hefdi útbyrdis í offa-stormi og drucknad! æ! hvørnig hún bar sig aumkunarlega! hvørsu ángistarfull, rétt eins og í ørvølnun, hún renndi augunum upp í himininn, og beiddi Gud um hugsvølun og styrk til ad géta afborid sína oútmálanlegu hjarta-sorg. Eins var hún og hin, hún hvørki sá, heyrdi né þenkti um annad, enn sinn missir. Allir nærstaddir vinir og kunníngjar hennar leitudust vid ad hugga og fridstilla hana, svo sem þeir gátu, en allt kom fyrir sama; hún var í hinni ákøfustu hrigdar géds-hræríngu. Gudm.

Gudm. O! mikid hefir hún haft ad bera.
Fad. Já! eckért minna enn þid ádan.
Nú, Jón minn! segdú mér fyrir, hvad eg á ad skrifa.

Jón. Sálin ockar gledst stundum og hriggist svo mjøg, edur, hún girnist stundum og fráfælist eitthvad svo ákaft, ad hún heyrir hvørki né sjer annad, og blódid hleypur mun fljótara í ædunum enn ella; þetta kallast géds-hræríng eda sinnis-lidan.

Fad. Og hvørsu margar þvílíkar géds-hræríngar hefum vid nú þegar lært ad þeckja?

Jón Tvær: Gledinnar géds-hræríngu, þegar madur gledst fram úr máta, og hrigdar géds-hræríngu, þegar madur hriggist úr máta.

Nikól. Hvørt eru enn þá fleiri géds-hræríngar til?

Fad. Nú er ecki tími framar ad svara því; vid skulum sjá þad seinna meir, lofi Gud! og nú af stad og nidur ad sjó og út med bockum, litla stund!

# Tíunda Samtal.

Fadirinn. (sem þá er að lesa bref) Hérna eru fréttir, sem viðvíkja þér, Nikólaus!

Nikól. Auh! mér?

Fað. Já! mér er skrifað, hann Jóhannes bróðir þinn muni kannské sækja ockur heim að mánaðar fresti.

Nikól. O! hann bróðir minn!

Fað. Hvernig líst þér á það?

Nikól. (gladvær) Mér þykir meir enn vænt um það.

Fað. En, hann er þó ecki kominn enn þá; það verður í fyrsta lagi að mánaðar fresti.

Nikól. O! hægt er að þreyja svo lengi.

Fað. Þú gétur þá gladt þig yfir einhverju góðu, sem enn þá er í vændum?

Nikól. Já, vissulega!

Fað. Nú, eg vil þá líka segja þér, hvað menn plaga kalla það. Þvílíka gleði yfir einhverju góðu, sem enn þá ecki er framkomið, kalla menn Von, og þegar slík gleði verður ákaflega mikil, eins og þín var núna, kalla menn hana vonar géðs-hræringu.

Matth.

Matth. Nú erum vid þá búnir ad þeckja þrjár géds-hræringar: gledinnar, hrigdarinnar og vonarinnar géds-hræringu.

Fad. (sem heldur áfram ad lesa brefid) Innan skamms munud þid læra ad þeckja hina fjórdu. Eg hefdi ecki átt ad gefa þér þessa von, Nikólaus minn sæll! því, eptir sem eg les hérna á hinni sídunni á bréfinu, þá kynni svo falla, ad eckert yrdi úr þeirri von.

Nikól. Vegna hvørs þá?

Fad. Mér er skrifad, ad heilsu-farid hans bródur þíns standi enn þá ofur tæpt, og hann muni því ad eins koma, ad hann verdi um þad leitid ordinn vel hress og heilbrygdur.

Nikól. (sorgfullur) O!

Fad. Máské þér þyki ecki svo vænt um þessa fregn?

Nikól. Nej! því fer ofur fjærri.

Fad. Gledin sú ádan mun þá vera horfin aptur?

Nikól. Já! horfin er hún.

Fad. Og nú gjørir þú þad, sem rétt er gagnstædt því, þú gjørdir ádan. Fyrst gladdir þú þig, og nú hriggist þú.

Nikól. Já! eg gét ecki annad.

Fad. Nú, því ecki? það gétur þó enn þá skéd, hann bródir þinn komi.

Nikól. Já! en það gétur og líka skéd hann komi ecki.

Fad. Þú gétur þá þegar fyrifram hriggst af einhverju því íllu, sem ad eins er mögu=legt, og sem einúngis er enn þá í vændum.

Nikól. Já!

Fad. Gat eg ecki rétt til, ad þid mundud aptur innan skamms fá ad sjá nýja géds=hræríngu? þarna er hún!

Jón. Ih! hver þá?

Fad. Hann Nikólaus ockar hrigdist af þvílíku íllu, sem ecki er enn þá til; hann hef=ir því qvídans géds=hræríngu.

Matth. O! eg hefi líka einatt mátt segja af þessari géds=hræríngu, þegar eg var ofur úngur, og til skamms tíma.

Fad. Hvernig stód á því?

Matth. Jú! vinnufólkid var sífellt ad masa fyrir mér um hana Grílu og Jóla=sveinana og um — o! eg er sjálfur farinn ad gleyma, sem vel er, um hvad, og þegar eg átti þá ad fara eitthvad á qvöldin í myrk=rinu, var eg ætíd svo qvídafullur og hrædd=ur, ad eg skalf og titradi.

Fad. Hvernig fór það af þér?

Matth.

Matthías. Þegar eg kom med þeim leiks-brædrum mínum einusinni, sem optar, ad renna mér á ísnum í røckrinu, sagdi eg honum Jóni litla frá øllu þessu heimskurugli, sem var í høfdinu á mér; hann hló þá svo dátt ad mér, og heimskadi mig fyrir óttann, sem eg bæri fyrir engu; því Þér, Fadir gódur! hefdud sagt sér, þad væru einberar smídar og þvættingur fólks; úr því fór eg ad reyna til ad gánga einn út á qvøldin í myrkrinu, og smámsaman vard eg hugdjarfari.

Fad. Nú, ert þú þá ecki lengur myrkfælinn?

Matth. Ih, af hvørju ætti eg vera þad? nú er eg kominn ad raun um, ad gømlu kerlíngarnar hafa smídad þad allt upp úr sér, til ad þagga nidur úngu børnin. Eg væri mikid fífl, ef eg fældist þad lengur

Fad. Þú hefir rétt fyrir þér, Matthías minn! eg vona líka, þú sért nú ordinn allt-of skynugur piltur til þess, þú skyldir vera qvídinn fyrir því, sem eckert tilhæfi er í. En, nú veitstú þó, hvílik géds-hræríng qvídinn er?

Matth. Já, hann er mjeg svo slæm géds-hræríng; af honum liggur mikid dauf-lega á manni.

Gudm. O! eg hef og, þegar einusinni hafst þessa géds-hræríngu, þegar hundurinn, sem eg hafdi glettst vid einhverntíma ádur, ætladi ad bíta mig.

Sad. Hvernig bar þad ad?

Gudm. Vid bródir minn gengum einusinni aptur eptir þad, fram hjá bænum, og þar sást þá enginn hundur; en— allt í einu kom hann stöckvandi fram hjá húsgaflinum á hladinu, og ætladi ad bíta mig í kálfann.

Sad. Sej, sej!—nú, hvernig lyktadi þad?

Gudm. Eg fór ad hljóda í ofbodi, og þá kom fólkid mér til hjálpar, og rak hundinn á burt.

Sad. Þad hefir víst verid meir enn einber qvídi, edur hrædsla, sem þú fannst til í þad skipti!

Gudm. Hvad var þad þá?

Sad. Þad var Skélfingar géds-hræríng, sem þá hefir komid ad þér.

Jón. Er hún enn þá annad enn qvídinn edur hrædslan?

Jad. Hún er ofur-hrædsla, sem eink-
um orsakast af þvílíku illu, sem kémur eld-
úngis óvørum ad manni. Hundurinn
spratt skyndilega fram, án þess hann Gud-
mundur litli ætti von á því. — Af þessu
hefdi kunnad ad verda, enn þá lakari
géds-hræring!

Jón. Enn þá lakari?

Jad. Já! ef hundurinn nú hefdi til
fulls rádist á, og bitid hann, þá mundi
Skélfingar géds-hræríngin hafa snúist uppí
Ofbods géds-hræríngu.

Jón. Hvernig er madur þá til sinnis,
þegar svo ber undir?

Jad. Þannig: ad madur alls ekkért veit
hvad um sig lídur. Rétt þegar ofbodid
kémur ad honum, er hann hreint sinnulaus,
og veit ecki hid minnsta med vissu af sjálf-
um sér.

Gudm. Ah! þad hef eg þegar einu-
sinni líka reynt; þad var þegar eg enn
þá ecki hafdi fengid vit á ad gégna því, sem
mér var sagt, og eg datt ofan í gryfjuna!

Jad. Svo var þad! þá kom ad þér of-
bods géds-hræring, af því þú hugdir gryf-
jan væri svo djúp, ad þú mundir druckna í
henni; — hvernig var þér þá áhættad?

Gudm.

Gudm. Eg vissi alls eckért, hvad þá leid um mig, eg gat ecki svo mikid sem komid upp hljódi.

Fad. Sjerdú nú! — nú, eg óska þú þyrftir aldrei framar ad komast í þessa slæmu gêds-hræríngu; ad sønnu gétur líka komid yfir mann of bod af gledi.

Jón. Af gledinni líka?

Fad. Ojá! þegar hún er mjøg mikil, og ofur-skyndileg. Menn vita jafnvel dæmi til, ad sumir hafa dáid af slíkri gledi.

Jón. Oh! er þad-møgulegt?

Fad. Oforvarandis offakjæti, fær allt eins krøptuglega á líkamann ockar, sem óforvarandis ofur-hrædsla; gjørvallt blódid brunar þá í einum svip ad hjartanu; madur følnar upp, lídur stundum í ómeginn og stundum ber vid hann fær jafnvel í sig flog.

Jón. Þá skal eg því betur gjæta mín, ad gledjast aldrei um of!

Fad. Hvør ein gêds-hræríng er skadvæn undir eins og hún verdur of megn. Fyrir því, hvørr, sem óskar sér ad lifa sæll og slísa-frí, hlýtur þegar í æskunni ad venja sig vid, ad temja sínar sinnis-lídanir, svo þær magnist ecki um of. Ad lyktum vil eg

segja

segja yckur dœmi-sögu, til ad endurnýja fyrir yckur allar þær gédshrœríngar, sem vid höfum átt tal um í dag: Þeckt hefi eg giptann barna-mann, sem eg kom til, er hann lá bana-leguna sina; hann var mjøg þúngt haldinn, svo ecki vissi nær hann mundi géfa upp øndina. Engu ad sídur var þó audsjed af ordum hans og útliti, ad hann var ánægdur; hann sýndist jafnvel tídum ad brosa, vidlíkt og honum bæri eitthvad þægilegt ad høndum; hvad ætlid þid hafi komid til þess?

Þidr. Hann hefir víst verid rádvandur dánu-madur, og því gjørla vitad, ad hann mundi, eptir daudann, verda mun farsælli enn hér í lifi, og sú fullvissa hefir fengid honum gledi.

Fad. Já! fyrir þá skuld gleymdi hann, svo ad segja, øllum sínum harmqvælum, já! gleymdi jafnvel því, ad hann nú hlyti yfirgéfa konu og børn, en hugsadi einúngis fram á fagnadi þá, er honum mundu fyrirbúnir í himninum. Og þó var þad, sem abladi honum þvílíkrar gledi, ad eins tilkomandi, og enn ecki fengid.

Jón. Hann hefir verid í vonarinnar géds-hrœríngu.

Fad.

Jad. Rétt!— vid rúmid hans sat konan hans grátandi, og sýndist ad finna til alls annars enn hann.

Jinn. Hún hefir verid svo hrigg.

Jad. Af hverju þá?

Jinn. Af því, hún hefir qvidid því, ad missa máské manninn sinn.

Jad. Hann lifdi þó enn, og enn nú gat skéd; ad honum kynni skyndilega ad batna, svo hann kjæmist til heilsu aptur. Hún qveid þá þvílíku illu, sem enn þá ecki var framkomid, og sem einúngis var líklegt ad hana hitta mundi.

Jón. Hún hefir víst haft qvídans gèdshræringu.

Jad. Víst og satt!— en, þar med var ecki búid; þegar leid undir qvöldid, komu ad manninum köldu-flog med offa-skjálfta. Þegar konan hans sá þetta, gat hún varla rádid sér fyrir ecka og þyngslum fyrir brjóstinu, svo nú vard ad stydja hana upp í rúmid.

Pidr. Þá hefir víst komid ad henni skèlfingar gèds-hræring.

Jad. Ad stundu lidinni fór ad draga af manninum, svo hann fèck ad lyktum hægt og mildt andlát; en hvernig konunni vard

vid, er hún heyrdi látid hans! hún vard rétt sinnulaus, gat ecki komid upp ordi, og féll í ómeginn.

Gudm. Já! hún hefir ordid yfirfallinn af ofbods gèds-hræringu.

Fad. Víst og satt, svo menn hugdu henni varla líf. — Nú, egum vid ecki ad skrifa þad upp, sem vid lært høfum í qvøld ad þeckja nýtt?

Matth. O, Fadir gódur! í þetta skipti vildi eg mætti lesa fyrir!

Fad. Nú vel! segdú þá fram!

Matth. Vid høfum heyrt, hvad Vonarinnar géds-hræring sé!

Fad. Hvad er hún þá?

Matth. Þegar madur gledur sig yfir einhvørju gódu, sem enn þá er í vændum.

Fad. Agætt! — framar høfum vid athugad?

Matth. Qvídans géds-hræringu.

Fad. Og hún er?

Matth. Þegar madur hriggist af einhvørju illu, sem eñ þá ecki er framkomid.

Fad. Hún er þá rétt hid gagnstæda Vonar géds-hræringunni. Er meira?

Matth. Já! Skélfingar géds-hræringin. Fad.

Fad. Og hvad ætla hún sé?

Matth. Hún er ofur-hrædsla af einhvørju illu, sem óvørum adkémur.

Fad. Rétt! — og ad lyktum?

Matth. Ofbods géds-hræríngin, þegar madur, sakir skélfíngar, verdur hreint sinnulaus, svo hann veit alls eckért hvad um sig lidur.

Fad. Nú, þad fór allt saman dável! næsta sunnudags-qvøld skulum vid læra þeckja enn fleiri géds-hræríngar.

Jón. O! því þá ecki í qvøld?

Fad. Fyrir því nú er komid mál til hvíldar fyrir yckur.



## Ellefta Samtal.

Gudmundur. Egum vid ecki í dag ad læra á ný eitthvad um sálina ockar?

Fad. Ef þid hafid enn nockra skémtun af því, svo er eg lika fús til ad kénna yckur meira um hana.

Allir. Ojá! ojá! Fadir gódur!

Fad. Eg útlistadi yckur fyrir skémmstu hinar ymislegu fýsnir, sem gódur Gud hefir

ir medskapad sálunum ockar. Á medal þeirra var ein, sem í því er innifalin, ad vid finnum hjá ockur nockurskonar laungun til, ad ega einhverja þá manneskju ockur hlidholla, í hverrar sambúdum vid smackad gjætum gledi, og sem aptur hefdi gledi af ockur; munid þid enn til þess?

Allir. Ojá! þad er kjærleikans fýsn.

Fad. Þegar vid elskum nú einhvern, þykir ockur þá ecki fyrir því, ad missa hann frá ockur?

Jón: Jú! ockur þykir best fara, ad hann sé hjá ockur.

Fad. Vid kjósum þá, ætíd ad vera honum sem nærstir, edur ad vera stadfastlega sameinadir vid hann?

Allir. Já!

Fad. T. d.: þegar eg er ad tala hérna vid yckur, svo vill hverr einn af yckur standa edur sitja rétt vid hlidina á mér, og hverr leitast vid ad troda sér framfyrir annann; hvad ætla komi til þess? — þad, ad yckur er vel til mín, er ecki satt?

Allir. Já!

Fad. Og þegar einhverr af þeim frændum eda vinum yckar kémur ad heimsækja yckur: breytid þid þá ecki aptur vidlika?

vill

vill þá ecki hvørr um sig vera honum sem nærstur, og keppist ecki hvørr vid annaun ad verda fremstur, til ad ná í høndina hans vinar síns, til ad gánga edur sitja vid hlidina á honum, til ad tala vid hann edur umfadma hann?

Allir. Jú!

Fad. Hefi eg þá ecki rétt fyrir mér í því: ad sá, sem elskar annann, finnur til einhvørrar laungunar eptir því, ætíd ad verda honum nánara sameinadur?

Allir. Jú!

Fad. Og mun nú þessi laungun verda nockurntíma svo sterk hjá ockur, ad hún megi med réttu kallast géds-hræríng? t. d.: ef einhvørr kæmi nú inn, í þessu augnabliki, med þær fréttir: ad einhvørr, sem yckur er best vid, væri kominn; en eg vildi samt halda áfram ad tala vid yckur, ætla þid mundud þá taka eptir því, sem eg segdi yckur, med eins mikilli athygli og núna?

Pidr. Nej! sannlega ecki.

Fad. Og vegna hvørs ecki?

Pidr. Vid vildum allir fá ad hlaupa út, og finna hann vin ockar.

Fad. Þid mundud þá komast í géds-hræríngu, og hvørja þá?

Jón.

Jón. Í kjærleikans geds-hræríngu.

Fad. En ef einhverr spyrdi yckur nú ad: hvad kjærleikans geds-hræring væri? hverju mundud þid svara?

Jón. Vid svörudum: ad hún væri laungun til ad komast í nánari sameiníngu vid einhvern.

Fad. Dável sagt! — en, eitt er enn þá! Þegar vid elskum einhvern, gyldir ockur þá einu, hvört honum lídur vel edur illa, hvört hann er heill edur sjúkur, ánægdur edur óánægdur?

Nikól. Þad gyldir ockur ecki einu.

Fad. Hvad kjósum vid þá helst?

Nikól. Þad, ad honum lídi sem best.

Fad. Kjærleikurinn er því mun meira enn laungun eptir ad sameinast æ nánar einhverjum; og hvad er hann enn meira?

Jón Hann er jafnframt laungun sú: ad þeim lídi vel, sem vid elskum.

Fad. Þegar vid nú elskum einhvern rétt innilega, og kjósum helst ad vera hjá honum alltaf, og hann hlýtur þó ad skilja vid ockur, eda vér vid hann; hvernig liggur þá á ockur?

Finn. Ecki vel!

Fad. T. d.: ef þid yrdud nú ad skilja vid foreldrana yckar, systkynin yckar, og alla,

sem

sem yckur vænt um þykir hér í nágrenninu, og fara lángt í burt til allra ókunnugra; hvernig mundi þá liggja á yckur?

Gudm. Þá yrdum vid ofur-stúrnir!

Fad. Af hverju þá?

Gudm. Ih, af því foreldrarnir og systkynin ockar væru þá ecki lengur hjá ockur.

Fad. Þad væri þá af þeirra fjarlægd vid yckur?

Gudm. Já! meir enn svo.

Fad. Og þessi hrigd mundi þá, haldid þid, verda svo mikil, ad hún mætti heita géds-hræring?

Nikólaus. O! gátulaust!

Fad. Nú vil eg segja yckur, hvad menn plaga kalla þessa géds-hræríngu, sem undir nidri er þó eckert annad enn kjærleikur: menn kalla hana Saknadar géds-hræringu.

Jón. Hún mun í því innifalin: ad madur er hriggur af annars fjærveru.

Fad. Rétt! — eg hefi nú aptur dæmisögu, ef þid viljid heyra! uppá þessar tvær géds-hræríngar, sem vid vórum ad tala um. Nýlega las eg um konu, er átti einn son, sem lidid hafdi skip-brot vid England. Skömmu sídar bárust henni fréttir um þetta óhapp, en gat þó ecki sannspurt, hvört pilt-

pilturinn væri drucknadur, edur hann hefdi lifs afkomist. Þid megid nærri gêta i hvilíku ástandi þessi vesllings kona hafi þá verid. O, minn son! minn son! kalladi hún hvad eptir annad, hvad kom mér til ad sleppa þér úr fadmi mínum? æ! ad eg fengi, þó ecki væri nema i eitt skipti, já! einúngis einusinni ad fadma þig enn þá upp ad mínu hjarta! þannig hrópadi hún án afláts, hún grét, hún stundi, hún neri hendurnar, og var hreint óhuggandi, segir sagan.

Gudm. Mun hann sonur hennar þá víst hafa dáid?

Fad. Seinna segir frá því! sami pilturinn átti systur, sem i sama máta hafdi nú þegar lengi grátid og barmad sér eptir hann; einn dag ætladi hún ad gánga út i gardinn, líklega til ad gráta sig þar metta á afviknum stad, og gjøra bæn sína; en, sem hún gengur inn i gardinn, verdur henni i skyndíngu litid vid, og sjer — hvørn haldid þid? — hann bródur sinn ástkjæra; jafnsnart varpa þau sér hvørt i fángid á ødru, umfadma og kyssa hvørt annad heitt og fast góda stund, med hvørskyns blídu-látum og fagnadar tárum. Æ! þad hefir víst verid

 vikn-

viknunar-efni nóg ad horfa á þau, eg vildi feginn vid hefdum allir verid þar vid.

Nikól. Hvørnig gat hann verid kominn þángad svo allt í einu?

Fad. Skipid, sem hann var á, strandadi, eins og um var gétid, vid England, skammt eitt frá Hollands strøndum. Sjálfur hafdi hann [illegible]tad bjargad sér á flaka einum, sem hrakti[illegible] beppilega á land upp; nú grunar hann ad fregnin um þetta óhapp muni innann skamms berast til eyrna módur sinni og systur, skundar því med fyrsta færi til baka heim aptur, til ad sanna þeim sig enn nú lifandi. Rétt í því hún systir hans geck nú út í gardinn, eins og ávikid var, sté hann af baki hesti sínum, og ætladi ad gjøra sér gledi med því, ad koma flatt uppá hana módur sína elskulega, og systur. Nú, segid mér þá, hvada gédshræríngu munu þessi bædi tvø systkyni hafa haft, er þau fundust?

Pidr. Kjærleikans og gledinnar gédshræríngu.

Fad. Já, ad vísu! — en hvada gédshræríng mun hafa ríkt hjá mædgunum bádum medan þær vissu ecki annad, enn hann væri daudur?

Nikól.

Nikól. Eg held Saknadar géds-hræríng.n.

Sad. Pad er víst; og enn fleiri gétum vid þó fundid í þessu dæmi; eda hværnig mun þad hafa fallid þeim vinum og náúngum þessara mædgna, er þeir leitudust vid ad hugga þær og hafa af þeim sorgina, og gátu þó ecként adgjört?

Nikól. Þeim hefir ad líkindum fallid þad þúngt!

Sad. Já! máské svo þúngt, ad sumir þeirra hafi sjálfir þurft huggunar vid af ødrum.

Jón. Þeir hafa þá víst sjálfir líka ysirfallist af géds-hræringu?

Sad. Já! ad vísu, og þad af einhværri ágjætustu géds-hræringu.

Jón Hvad heitir hún þá?

Sad. Medlídunar géds-hræríng, sem í því er innifalin: ad madur hryggist af annars óførum.

Jón. Auh! þessi er þá þegar hin níunda géds-hræringin, sem vid høfum lært ad þeckja.

Sad. Enn þá er meira! hvílík géds-hræring mun hafa komid ad systur piltsins, er hún midt í hinni djúpustu sorg, sá ó-

vorum hann bródur sinn kominn, edur ad henni módur þeirra, fyrst þegar hún sjed hefir systkynin bædi koma inn; varla munu þær, hvor fyrir sig, hafa trúad augum sínum, svo mikil undran hefir víst gripid þær!

Pidr. Hvad heitir þá sú géds-hræring, sem ad þeim kom?

Jón. Ih! þad gétur madur af sjálfsdádum skilid! þad hefir verid Undrunar géds-hræring; er ecki satt? Fadir minn!

Fad. Þú átt koll-gátuna, Jón sæll! og er því líklegt, eg þurfi nú ecki fyrst ad segja þér, hvor og hvílík þessi géds-hræring sé?

Jón. O! þad er audrádid! hún er, þegar madur undrar sig yfir einhvörju, sem hann átti alls enga von á.

Fad. Hún er því gledi yfir einhvörju nýju, edur einhvörju óvæntu; er ecki svo?[*)]

Jón.

*) Eptir enn smá-smuglegri nidur-rodun, sem börn fá þó án verid, mætti gjörast greinar-munur á Undrunar-, furdu og Stans edur Stönsunar geds-hræringum, þannig: ad ordid Undrun brúkadist til ad teikna med gledi, Furda til ad teikna med sorg af einhvörju óvæntu, og Stans til ad teikna med ena hædstu tröppu í þessu hvörutveggju.
Rithöfund.

Jón. Já! — nú mun ecki vera meira, sem lært verdur af dæmi-sögunni þeirri ádan; má eg því ecki lesa fyrir?

Nikól. O! eg hefi ecki lesid fyrir svo lengi!

Fad. Hvørr yckar, sem man nú eitt hvørt tilhlýdilegt dæmi, er hann heyrt hefir edur lesid í sögunum, skal segja mér fyrir þá géds-hræríngu, sem hann getur leidt dæmid til.

Jón. O! þad er æskilegt! eg man þegar eitt!

Fad. Hvada géds-hræríngu áhrærir þad?

Jón. Kjærleikans géds-hræríngu!

Fad. Nú, segdú ockur þá fyrst!

Jón. Í Syrakúsa-borg (í Sikiley) ríkti fordum Hard-stjóri sá, er Dyónisius er nefndur. Um sama bil lifdu þar og vinir tveir, hét annar Damon, en hinn Pythias. Eitt sinni bar svo undir, ad Hard-stjórinn vildi láta ráda Damon af døgum, og hafdi nú þegar varpad honum í dymmadýblissu; en Damon bidur hann þó fyrst lofa sér ad fara til síns føt urlands, ad qvedja þar vini sína og ættíngja. Já! svaradi Hard-stjórinn, þad mun eg ad vísu láta eptir þér, ef einhvørr finnst sá,

 ed

ed í þinn stad, gista vilji í fángelsinu á medan, og deyja fyrir þig, verdir þú ecki aptur kominn á áqvędnum tíma. Þar var þá strax vid hendina Pythias fóst-bródir hans; hann geckst gladur undir, ad láta sig innsvara í fángelsid fyrir hann, og Damon fór leidar sinnar. Nú upprann dagurinn, sem til var tekinn, á hverjum hann atti ad vera aptur kominn, og aftakast, en enginn vissi enn þá hid minnsta um Damon ad segja. Þá býdur Hard-stjórinn ad leida skuli Pythias til aftøku-stadarins. Hann brást gladur vid þad, ad hann fengi deyja fyrir Damon fóst-bródur sinn, og gengur þangad fús og gladur. Allt í einu heyrdu menn ógurleg hljód til einhvørs, og sáu mann brjótast fram midt igegnum mann-þraungina til aftøku-stadarins; var þar þá kominn Damon sjálfur. Hann fellur þegar um hálsinn á vin sínum Pythias, og afsakadi sig, ad sér hefdi ei unnt verid ad komast fyrr aptur enn nú; en Pythias féck þetta mikillrar hrigdar, fyrir því hann kaus helst, hann hefdi aldrei þángad aptur komid. Þá undradist Hard-stjórinn þessara manna tignu vináttu, gaf þeim bádum líf, og bad þess einúngis af

þeim,

þeim, ad þeir og vildu taka sig í fóst-brædra-lag med þeim.

Jad. Þetta dæmi er ad vísu tvøfaldt, fyrst uppa kiærleikans géds-hræríngu, og í ødru lagi —

Nikól. Uppá undrunar géds-hræríngu?

Jad. Því í undrunar géds-hræríngu var Hard-stjórinn og líklega allir nálægir, er sáu hvad skédi.

Pidr. Eg hygg, ad allir þeir ed' þar vóru vidstaddir, hafi haft medlídunar géds-hræríngu ádur enn hann Damon kom, vegna hans Pythiasar veslings, sem deyja átti saklaus; ætla svo hafi ecki verid?

Jad. Eflaust þad! þess vegna þurfum vid ei framar ad leida annad dæmi til þess.

Nikól. Á eg þá ecki samt ad segja dæmi uppá søknud?

Jad. Jú, en skøruglega, vid tøkum eptir!

Nikól. Þegar Mausolus Köngur, madur Artheimisiu Drottníngar í Karja deydi, vard hún øldúngis óhuggandi eptir hann; bygdi hún honum þá veglegt leidi edur heidurs-varda, sem kallad var Mausóleum, lét sídan brenna lík hans, og blandadi á hvørjum degi nockru af øskunni saman vid dryck sinn og þannig drack hana upp med.

Fad. Agætt! hún hefir þá fyrir víst haft saknadar géds-hræríngu. — Nú, Jón litli! segdú mér þá kjærleikans og undrunar géds-hræringuna; þú, Pidrik! medlídunar géds-hræringuna, og þú, Nikólaus! saknadar géds-hræringuna, en hverr ydkar í þeirri röd, sem vid lært höfum ad þeckja þær í dag.

Jón. Eg byrja þá! Kjærleikans géds-hræring er innifalin í laungun eptir ad sameinast æ nánara vid einhvørn, og eins líka í laungun eptir, ad þeim megi ætíd lída sem best, er madur elskar.

Nikól. Nú kém eg! — Saknadar géds-hræringin er innifalin í hrigd af annars fjærveru.

Pidr. Nú eg! — Medlídunar géds-hræringin, er hrigd af einhvørs annars óförum.

Jón. Nú kém eg aptur! — Undrunar géds-hræringin, er gledi af einhvørju nýju, edur einhvørju óvæntu.

Fad. Þad géck skøruglega af! eg hefi varla haft vid ad skrifa! Þvílíkum er gledi og gaman ad kénna gott!

# Tólfta Samtal.

Finnur. Æ! Pér lítid svo dapurlega út í qvøld, Fadir gódur!

Fad. Eg er líka raunar stúrinn!

Finn. Auh! hvad kémur til?

Fad. Pad er vegna þess, eg hef nockud sorglegt ad segja ydkur í qvøld.

Allir. Nockud sorglegt?

Fad. Iá! mikid sorgar-efni er þad.

Finn. Ih! hvad helst?

Fad. Hvernig gétur madur annad enn verid stúrinn, þegar hann hlýtur ad segja frá einhverri ógjæfunni um brædur sína?

Matthías. Egid Pér nockra brædur enn, Fadir gódur?

Fad. Otal marga, eins og sandurinn er í hafinu.

Allir. Ah!

Fad. Ega ecki allir kyn sitt ad rekja til eins fød:urs? ega ecki allir einn sama Gud fyrir sinn Skapara og Vidhaldara? eru þá ecki raunar allar manneskjur holdgétnir brædur, og høfum vid því ecki gylda or-

sek til sorgar, þegar vèr sjáum suma af þeim á slíkum villu-stigum, sem leida til glötunar.

Jón. Hvad hefir nú borid vid?

Fad. Ad vísu engin nýlunda; en, því midur! þá er ógjæfa sú, er eg hlýt ad tala vid yckur um í dag, svo gømul, sem heimur þessi er, og allt til þessa hefir ecki ad fullu ordid gjørt vid henni.

Jón. Nú, hvad er þad þá?

Fad. Búid yckur undir ad heyra þvílíkt, sem nærsta hørmulegt er til ad vita. — Sumir af brædrum ockar, børn min gód! eru sjúkir, ofur-sjúkir.

Þidrik. O! þad er víst ecki svo mikil ógjæfa! þeim batnar kannskè smámsaman, edur þeir deyja.

Fad. Þad er ecki svo hægt, ad verda heill af þeim sjúkdómi, sem eg meina til; daudinn sjálfur fær ecki leidt hann til lykta. Sè madur ecki þegar heill ordinn af honum fyrr enn hann deyr, svo — ógnarlegt er þad, børn gód! — svo flytur madur hann med sèr inn í eilífdina.

Nikólaus. Ógurlegur hlýtur sá sjúkdómur ad vera!

Jad. Það er hann; og svo eg dragi yckur ecki lengur á því, vil eg segja yckur, piltar litlu! að eg á nú ecki tal um líkamans sjúkdóma, heldur þá, sem miklu eru skaðvænlegri, um sjúkdóma vorrar ódauðlegu sálar.

Guðm. Getur sálin líka orðið sjúk?

Jad. Því er miður! hún getur það, og mørg ein sál er, því verr! mjøg háskalega sjúk. Takið nú eptir, eg vil reyna til, hvørt eg fæ ecki gjørt yckur það skiljanlegt; segið mér fyrst, hvønær er líkaminn heill heilsu?

Þiðr. Þegar við kennum engra meina, og þegar við getum vel afkastað því, sem við eigum að sýsla.

Jad. Þegar nú viðlíka er ástadt fyrir manneskjunnar sálu, þegar hún finnur til einhvørra meina eður óánægju, og hún alls ekkért gott fær gjørt, eður hugsað; hvørt ætla hún se þá heldur heilbrygð eður sjúk?

Allir sjúk!

Jad. Nú, eg ætla mér í dag að útmála fyrir yckur nockra af þvílíkum sálar-sjúkdómum, svo þið getið varað yckur við þeim. — Í fyrsta máta er nú einn, og er sá voðdur mjeg, hann kalla menn Hatur eður Haturs geðshræríngu.

Jón. Fy!

Fad. Já! ad vísu, fy! hvílík smán fyrir oss mennina, ad nockurntíma skuli þær mannlegar sálir til vera, sem fleckadar séu af þessum andstyggilega sjúkdómi. Vitid þid, í hvörju hann er innifalinn?

Allir. Nej!

Fad. Gjæfi þad Gud! ad þid aldrei þyrftud læra ad þeckja hann af eginreynslu! gjørid ydkur í hugar-lund hvílíkur hann sé; hann er í því fólginn: ad madur vill þeim allt íllt, sem hann hatar, og gledst af því, þegar honum vill einhver ógjæfan til.

Allir. Fy! þad er herfilegur vidbjódur!

Fad. Eins og eg sagdi ádan. — Hvad haldid þid? mun nockur sál, sem þannig er sinnud vid einhvörja manneskju, géta verid ánægd med sjálfa sig?

Jón. Nej, því fer ofur fjærri!

Fad. Edur, gétur hún ætlast til, ad Gud, hinn gódi ástríki Gud, sé ánægdur med hana?

Jón. Hvørnig gétur hún þad?

Fad. Og, mun þá þvílík sála fá notid nockurrar sannrar og stødugrar farsældar?

Þidr. Nej! lángt frá!

Jón. Hverr sá, ed farsæll er, hlýtur víst ad vera ánægdur med sjálfann sig, hann

hann verdur líka vita þad, ad gódur Gud hafi velþóknun á honum.

Fad. Rétt! hverr, sem því hatar annann, getur enganveginn sæll verid. Fyrir því, hann er óánægdur yfir þeim, er hann hatar, og óánægdur med sjálfann sig, þá býr hans sála yfir kol-dymmum herfilegum þaunkum, sem pína sjálfann hann mest, og bægja honum frá ad hugsa, tala, edur gjøra nockud gott. Vinnur nú ecki þvílík sála til þess, ad vid køllum hana sjúka?

Allir. Jú! ad vísu!

Fad. En, allt eins og sá, sem sjúkur er á líkamanum, finnur optast nær til fleiri enn einskonar qvilla í einu; t. d.: høfudverkjar, sídu-stings, hjarta-fløkurs, magaqveisu, og svo fr. — svo plagar og þessi sálar sjúkdómur skjaldnast ad koma einsamall, miklu framar hefir hann adra allteins ófrýnilega sjúkdóma í før med sér. Einn þeirra — hvørs einbera nafn eg fæ ecki án vidbjóds úttalad —, kallast Øfund edur Øfundar geds hræring.

Gudm. Þad er sami sjúkdómurinn, sem þeir Jósephs brædur høfdu!

Fad. Víst og satt! þeir vóru óánægdir edur hriggvir af því, honum bródur þeirra

leid vel, og af því hann Jacob fadir þeirra elskadi hann einkanlega, og lét búa honum til mislitann kyrtil; og í þessu sama er efundin fólgin, en þeir vóru jafnframt í haturs gèds-hræríngu, þared þeir vildu sínum saklausa veslings bródur allar ófarir, og hefdu gladst af því, ef honum hefdi lidid sem verst.

Jón. Höfdu þeir þá enn eckért heyrt um Gud?

Jad. Öll er von til þú spyrjir svo; því raunar má þad undrum gégna, hvørnig sá, sem fengid hefir nockra, jafnvel ena allra minnstu þeckíngu á gódum Gudi, hvørnig hann gæti verid svo hraklega sinnadur. Og þó var áminnstum brædrum þannig ahättad í þetta skipti; því líklegt er ad Jakob, sem sjálfur var dánumadur, muni ecki hafa slegid sloku vid, ad gjøra gódann Gud kunnann børnum sínum; en án efa, hafa þau ecki lagt hug sinn, sem skyldi, eptir þessari uppfrædíngu; þau hafa ecki nógu opt yfirvegad þad med siálfum sér, sem þau af henni nema áttu, ja, hafa alls engann gaum gèfid ad því. Hvílíkt óttalegt dæmi uppá þad, hvørnig fara muni fyrir børnunum, þegar þau taka fyrst ad nidursøckva sér í gjálífi, taka ad verda

gálaus vid uppfrædíngu og áminníngar foreldra sinna og frædara! o! innrætid þetta skélsilega dæmi, djúpt innrætid þad yckar sálum, já, skélfist fyrir þeim sannleika, ad gódra og vandadra foreldra bern jafnvel, kunna verda ógudleg þegar þau gégna ecki, hlýdnast ecki í ellu hygginna manna gódum áminníngum.

Nikól. Eru enn þá fleiri þvílíkir hrylligir sjúkdómar?

Fad. Því midur! er enn þá einn annar til, og er sá einkum vodalegur; þann kalla menn Heipt.

Nikól. (hryllir vid) Húh!

Fad. Þig hryllir upp; mig líka! gjerid yckur í lund, hvørsu vidurstyggileg gédshræríng þessi er á nýᵹ hún er fólgin í ákafri laungun eptir, ad gjøra ødrum eitthvørt mein, þeim sérílagi, sem vid hyggjum ad afgjert hafi vid oss í einhvørju.

Jón. O! vid hefum þegar í sagna-frædinni heyrt um þenna sjúkdóm gétid.

Fad. Hvørnig stód á því?

Jón. Þegar Alexander vard svo heiptar-reidur vid hann Klitus vin sinn, ad hann staek hann sjálfur í hel.

Gudm. Já! og lángtum fyrri, þegar Kain sló hann Abel bródur sinn í hel.

Fad. Vel fer, ad þid munid þad; nú þarf eg eckí fyrst ad segja yckur, hvílikur affinna sjúkdómur hann sé, og til hvílíkrar óhæfu hann komid gétur manneskjunni. Sá hinn heiptugi, hann er vitola, hann veit alls eckert víst af sjálfum sér, og hagar sér því eins og vitlaus vargur. Menn ættu ad loka hann inni, eins og þá, sem gengnir eru frá vitinu, svo allir væru óhultir fyrir því, hann gjørdi engum skada.

Gudm. Er þad þá ecki gjørt?

Fad. Ad sönnu stundum; en fyrir því, ad heiptar-reidin er nockurskonar ædi, sem skyndilega adkémur, og verdur því ecki fyrirsjed, svo er skadinn a̋koptast skédur, fyrr enn yfirvaldid náir af ad vita, og gétur því, ad svo komnu, eckért annad adgjørt, enn refsad hinum heiptuga, ødrum til vidvørunardæmis og ógnunar.

Finn. En þessir mann-ræflar fá víst ecki ad því gjørt, þó sálin þeirra sé svo sjúk?

Fad. Ef svo væri þeir fengju þad ecki, þá væri órétt ad hegna þeim; en, því midur! þeir fá allt ofmikid gjørt ad því; á eg ad skíra yckur frá, hvørnig þessi sjúkdómur byrjar?

Allir.

Allir. Ojá! svo vid fáum gjætt ockar vid honum.

Fad. Yfir høfud ad tala, þá er grundvøllurinn til hans lagdur hjá børnunum þegar korn-úngum. Sumir menn eru til, svo fávísir, ad þeir ætíd láta hvad eina eptir børnunum úngum, sem þau vilja. Heimti þau eitthvad, géfa þeir þeim þad strax; en hvad helst ecki er eptir þeirra gèdi, edur þau vilja ecki gjøra, láta þeir svo vera. Þetta skémmir svo børnin, ad þau taka nú fyrst ad verda einþyck, þad er: þau heimta, ad allt sé látid vera svo, sem þau vilja, en èckért þad gjørt, sem þeim er á móti skapi. Nú eru þau þegar korn-úng ordin ólídanlegar skèpnur. Stundum er hitt, stundum þetta þeim til einhvørs ama; ymist þykir þeim hinn, ymist þessi hafa gjørt eitthvad, sem ecki er eptir þeirra høfdi. Þannig gèngur þá á sífeldu kífi, á ævarandi góli og gráti fyrir þeim. Komist nú pilturinn þessi edur stúlkan litla, nockud betur á legg, og finni sig nockud styrkvari ad krøptum, taka þau smámsaman ad vilja þvínga øll ønnur børn med ofur-efli, til ad gjøra þad eina, er þeim þócknast, og láta hitt ógjørt, sem þeim ecki

er

er um. Nú fœra þau sig lengra uppá skaptid,taka nú jafnvel ad hrakyrda,hrynda, slá og kasta í þá, sem þeim sinnast vid. Þid megid nærri géta, hvørsu vidbjódsleg sýn þetta hlýtur ad vera hvørjum skynsemum manni, sem þar er vidstaddur, og mun hann ad vísu neydast til, ad ávíta þvílíkt afsinna barn. Vildi þad nú láta ad þessum ávítum og áminningum, vildi þad ad eins aptra sér lítid eitt frá gjálífi sínu, og jafnframt bidja Gud opt og rækilega um hans almáttugu adstod til betrunar, svo mundi því enn hægt veita, ad lagfærast, og afleggja þenna hraklega vansa hjá sér. Því, eins og þid vitid, á medan sálin er enn þá úng, gétur hún vanid sig á sérhvørja dygd, og þarámót vanid sig af sérhvørjum lesti. En vej þeim, sem slær því á frest! því þess eldri, sem vid verdum, því torveldara veitir ockur ád afleggja þad aptur, sem þegar ordid er ad vana fyrir manni. Þannig er því varid fyrir sumum af þvílíkum børnum; þau forsóma hina réttu tíd til betrunar, og betra sig því aldrei. Heiptin verdur þegar æ kreptugri og óvidrádanlegri hjá þeim, þángad til eins lángt kémst fyrir þeim ad ýktum,

sem

sem fyrir Kain og Alexander, er drepid gátu vin sinn og bródur. O børn! mín gódu børn! Gud almáttugur virdist ad vardveita yckar úngu sálir, svo þær aldrei opnar standi fyrir heipt né reidi vid nockurn einn af brædrum yckar. — Nú, til enn frekari vidvørunar vil eg segja yckur dæmi uppá þvílíkar ógjæfu skénnur. Páll og Þorvardur hétu tveir piltar, sem setjast áttu til menta og mennunar hjá Phílókaló Frædara. Páll var vel uppalinn, sidprúdur og ást-sæll piltur, sem lét þad sýna meinu gedi, ad gjørast daglega hyggnari, vísari og betri. Hann var gaumgjæfinn, og tók vel eptir øllu, sem honum var sagt og kénnt, vingjarnlegur og eptirlátur vid leiks-brædur sína, gjætti reglusemi og þrifnadar í øllu, sem honum vidvék, og var hlýdinn foreldrum sínum og frædara, svo allir untu honum hug-ástum. Þorvardur þarámóti var rétt hid gagnstæda Páli, hann var hiskinn, gálaus, sódalegur og óhlýdinn slysjúngur, og var því ecki kyn, þó enginn fell(i) sig vid hann. Allt um þad, vildi hann þó hafa allteins gott atlæti af øllum eins og hinn, en fyrir því honum tókst þad ecki, fór hann ad leggja hatur á

sinn

sinn elskada skóla-bródur, rètt eins og hann væri orsøk í hans ógiæfu; já, hann ecki einúngis hatadi hann, heldur øfundadi hann líka, þad er: hriggdist af øllu því góda, sem Páll hafdi til ad bera og adhafdist, svo allir tóku til þess, hvernig hatrid og øfundin til Páls var rètt eins og afmálad á Þorvardar andliti; þegar hann fèck ávítur hjá frædara sínum, en heyrdi Páli hrósad, stód hann heilum stundunum agndofa hèr og hvar og skapraunadi sjálfum sèr, af því Páll var svo ástundúnarsamur, og fyrir þá skuld elskadur og metinn framar honum; hann brann nú af laungun til ad gjøra honum eitthvad íllt, en fèck þó aldrei færi á því, fyrr enn eitt sinn, er þeir vóru ad leikum saman med ødrum børnum, þá kom þvílíkt heiptar ædi ad honum allt í einu, ad hann þrífur stein, og kastar honum á Pál, án þess ad hugsa útí, ad hann kynni drepa hann med honum, edur ad minnsta kosti svipta hann heilsunni, og í því bili kémur Philókalus ad, og talar þessum ordum til Þorvardar: "fólsku-"fulla, óluckulega úngmenni! hvørnig ætla "fari fyrir þèr, ef þú heldur áfram í þessu "vondsku-ædi, ef þú lærir nú ecki strax ad

"þeck-

" þeckja þinnar sálar háskalega sjúkdóm og
" vinna bót á honum? þú munt verda af-
" hrak, sem hvørki Gud né menn géta elskad,
" sem Gud og menn verda ad straffa, til ad
" þrísta þér med sárum píntíngum til ad
" kannast vid þitt vonda gédslag og lagfæra
" þad.— Burt hédan frá mínum augum!—
" af mínu heimili!"

Gudm. O! þad var maklegt! en ætla þvílíkur sólsku-drengur hefi nockurntíma til verid? þetta var ad eins dæmi-saga, Fadir gódur!

Fad. Eg kysi helst ad svo væri, Gudmundur sæll! ad minnsta kosti vona eg, ad slíkar ófreskjur séu mjøg fáar til; en, — því verr! géfast þess dæmi.

Jón. Egum vid þá líka ad skrifa upp þessar hryllilegu géds-hræríngar?

Fad. Já! vid skulum skrifa þær upp, til þess vid gétum daglega, med nockurskonar vidbjód minnst þess, ad þvílíkir hættulegir sálar-sjúkdómar séu til, sem vid hljótum ad gæta ockar fyrir. Segdú fram!

Jón. Haturs géds-hræríngin er inni-falin í því, ad madur ann ødrum ills, og gledst af því, er honum vill illt til.

Fad. Eg er búinn med þad.

Jón.

Jón. Ófundar gèds-hræringin er í því fólgin, ad madur hriggist af því, sem ødrum hlotnast gott.

Fad. Og ad lyktum.

Jón. Heiptar gèds-hræringin; hún er girnd sú, ad gjøra þeim eitthvad illt, sem madur heldur afgjørt hafi vid sig í einhvørju.

Fad. Og nú ecki eitt ord framar um þetta! gjæsi Gud, ad þid aldrei þyrftud framar ad sanna þad af egin edur annara dæmum, ad þvílíkar manneskjur væru til, sem med vargalegum skaplestum gjørdu sig óverduga hins fagra og háleita nafns, ad heita Manneskja!



## Þrettánda Samtal.

Finnur. Egum vid nú í qvøld ad heyra enn meira um eins hryllilega sálar-sjúk-dóma og næst?

Fad. Því midur! eru enn þá fleiri til, um hvørja ecki var rædt sídast.

Jón. Eg kysi helst, ad sú rauna-þula væri þegar á enda.

Jad. Eg í sama máta, Jón minn! máskè eg egi að sleppa þeim, sem eptir eru?

Jón. Nejnej! við verðum þó að þeckja þá, ockur til viðursýndar og varúðar.

Jad. Nú, vel! eg skal leitast við, að vera svo fáorður, sem fært er. — Mér kèmur þá strax í hug grafskrift, sem eg lesið hefi, yfir Gissur nockurn; hún var þessi:

Hèr liggur Gissur grafinn,
Sem gróf sig lís's í maurum.

Hið helsta atriðið, sem eg man úr hans lífs-sögu, var það, að hann safnaði hvörju álnar-virði, er hann gat komist yfir í kistil einn, sem hann gróf þess á milli í jörðu.

Guðm. Í jörðunni? ih! hví gjörði hann það?

Jad. Því hann vildi allt annað, enn verja því til nockurs góðs, og af því hann var sí-uggandi um, þó án orsaka, að það mundi verða tekið frá sér. Nú megið þið sjálfir gèta nærri, af hvaða sinnis-líðun sálin hans Gissurs hafi sjúk verið?

Jón. Ah! mig grunar strax, hvaða gèðs-hræríng það hefir verið.

Jad. Hvør grunar þig helst?

Jón. Ágirndar gèðs-hræríngin.

Guðm. Fy! hann hefir verið einhvørr fè-púkinn. Jad.

Fad. Já, børn góð! það sannar graf-skriftin hans, sem þið heyrðuð: Hann gróf sig lifs í maurum; því mun vera tekið svo til orða um hann?

Jón. Ih, því honum hefir þókt svo vænt um peníngana í lífinu.

Fad. Hann hefir því haft girnd til að útvega sér auðlegð. — Er það ecki rétt gjørt, að leitast við að safna sér nockru, og fara fallega að ráði sínu með það, sem maður gétur aflað sér? eg hugði þeir sparsømu mundu gjøra viðlíka, og sparsemin er þó að vísu eckért íllt?

Jón. Já! en — maður má þó ecki vera allt of fé-gjarn.

Fad. Þú heldur þá að greinar-munurinn á þeim ágjarna og sparsama, sé einúngis í því fólginn, að hinn fyrri hafi allt of mikla, en hinn síðari hóflega girnd til fjár-afla.

Jón. Jó!

Fad. Þú fer ecki skackt í því! en eg hygg þó, að enn þá sé annar greinar-munur á milli hvørutveggju, sem enn auðþeckjanlegri sé, enn sá eg umgat. — Til hvørs óskar hinn ágjarni sér að ega féð? til þess máské, að verja því til síns og annara gagns og góða? Jón.

Jón. Hann Gissur fyrir víst ecki! hafi hann grafid peníngana sína nidur í jørdina.

Fad. Til þess einúngis þá ad ega peninga, og geyma þá, án þess ad brúka þá til nockurs þarfa. — En til hvørs kostar hinn sparsami kapps um, ad abla sér nockurs?

Pidr. Til ad brúka þad.

Fad. Og til hvørs þá?

Pidr. Til gagnsmuna sér og edrum.

Fad. Rétt! — dæmid vár á Fridgerdi konunni hans ágjarna Gissurs; hún vardi øllu ómaki til ad ávinna sér nockud med ydni og sparsemi. En, til hvørs? máske til ad grafa þad vidlíkt og hann bóndi hennar? nei! lífs-sagan hennar segir: hún brúkad hafi nægtir sínar til bjargar aumum og naudstøddum.

Gudm. Hún var þó gædsku kona!

Jón. Illa fór, hún átti þvílíkann nirfil fyrir mann!

Fad. Getid þid nú sagt mér, hvad ágirndin raunar sé? eg ætla ad skrifa þad upp, Jón litli!

Jón. Ágirndin er girnd til audlegdar, ecki til ad verja henni vel, heldur einúngis til ad geyma hana.

Fad. Agætt! — nú vil eg minnast fátt eitt á hann Reiging nábúa Gissurs, hann var mesti oflátungur, segja þeir, sem til hans vissu, gaf ad sönnu og gjørdi gott fátækum, en hylltist ætíd til ad gjøra þad, þegar sem flestir sáu til, og þagdi aldrei á því vid hvørn, sem heyra vildi, bætti og tídum drjúgum vid.

Gudm. Vegna hvørs ætla hann hafi gjørt þad?

Fad. Alltsaman, einúngis einnrar orsakar vegna, sem eg held þid gétid varla gétskad uppá.

Gudm. Ih! hvørr gétur gétid þess?

Fad. Nú, eg vil þá segja yckur þad: sálin hans Reigings var og líka sjúk, børn mín gód!

Jón. Af hvørju þá? hvad géck ad honum?

Fad. Þad var einhvør slæm sinnis-lídan, sem ad honum géck, eg gjørir sú þær manneskjur sár-veslar, er hún náir ad flecka. Menn kalla hana æru-girnd edur girnd til hrósunar.

Jón. Ha! ha! nú veit eg hvørnig á øllu stendur, hvørs vegna hann hylltist til, ad gjøra gott, þegar flestir vóru vid, og hvørs vegna hann þagdi aldrei á því vid adra.

Fad.

Jad. Nú?

Jón. Hann vill ad fólk sjái hvad mikid hann gèfur, hvad gódur og gjafmildur madur hann sé.

Jad. Víst og rètt! vitid þid nú til vissu, í hvørju sjúkdómurinn hans Reigíngs var innifalinn? allt sem hann tók sèr fyrir hendur, þad gjørdi hann ecki af því, þad raunar var gott, var ágætt og veglegt og Gudi velþóknanlegt, heldur einúngis og alleina til þess honum yrdi hrósad fyrir þad.

Gudm. Þad var heimsku kénnt! hvad gagn hafdi hann af því, þó honum væri hrósad af ødrum?

Jad. Rétt hefir þú fyrir þèr, Gudmundur minn! hrós og last manna gjørir ockur í engu verri edur betri, enn vid ádur vorum, og því ætti madur raunar eckért ad gjøra þess vegna einúngis. Annad er þad, þó madur ávinni sèr med-brædra kjærleika, med dugnadi sínum og hreinskilni í øllum athøfnum, þad er lofsverdt, þad gétur raunar gjørt oss sælli. Því, þegar margir unna og elska ockur, svo leitast eins margir vid ad gledja ockur, og efla vora velferd hvørvetna; þá verdur ockur þad ad sønnum notum. En losid einúngis

 og

og lastið fyrir sig, flýgur burt úti loptið eins og orðin, með hvørjum það er talað út af munninum. Er það því ecki dárlegt að gjøra nockuð, einúngis fyrir þvílíks hégóma sakir?

Guðm. Jú, það er satt!

Fað. Auk þessa, hættir hið góða, að vera gott framar, þegar maður einúngis gjørir það í þeirri veru, að afla sér með því stórs álits hjá fólki, og láta hrósa sér fyrir það. — Eður, sýnist yckur að maður géti með réttu sagt um hann Reiging, að hann géfið hafi fátækum nockuð af meðlíðunarsemi, eður fyrir Guðs sakir?

Jón. Nej! hann gjørði það víst einúngis fyrir fordildar sakir.

Fað. Því gétur það ecki heldur heitið nockur dygðug athøfn, sem hann gjørði.

Jón. Oecki!

Fað. Hégóma-girni er aðgjætandi, að ærugirndin gjørir þá beslíngs-menn, er af henni plágast, vesælli enn frá megi segja. Því, þareð þeir álíta gjørvalla sína farsæld þar í fólgna, að vera lofaðir af øðrum, svo vill þeim hvørt augnablik eitthvað það til, sem gjørir þá óánægða. Ymist hefir fólk ecki tekið eptir því, sem þeir þóktust gjøra lofsverdt,

verdt, og þegir því eldúngis um það. Ymist gëfur það þeim ecki nógu mikid hrós, og sumir kunna þeir til ad vera, sem finna jafnvel ad þeirra háttsemi. Þvílík ærugírug manneskja er þá ætid óánægd med adra menn, med sín egin kjer, og med sjálfa sig, þó hún ad ødru leiti hafi alla orsøk til ad vera vel ánægd og luckusæl. Erú slikir þa ecki nærsta aumkunarverdir, sem láta sig þannig leida af ærugirudinni.

Allir. Jú, ad visu!

Fad. Eg hefi lofad, ad vera ecki lángordur um þessa sálar sjúkdóma; veri því þetta nóg sagt um ærugirndina, þó er ecki allt búid enn þá!

Nikól. Æ! eg hálf qvídi fyrir; hvad ætla nú komi?

Fad. Já! eg vil segja yckur úngdóms søguna hans Flosa gamla, sem hëldt seinast vid hokur á Ospaksstødum; svo verdid þid aptur ad gëta uppá hvad raunar gengid muni hafa ad sálunni hans.

Gudm. O Já! ef vid gëtum!

Fad. Þegar hann var enn þá únglingur uppvaxandi í fødur-gardi, sagdi fadir hans og frædari opt vid hann, ad hann yrdi leggja kapp á, ad láta sër fara vel

fram í því, sem hann ætti læra, og honum kénnt væri, vegna þess menn mundu síðar meir heimta mikið af honum, þegar hann kominn væri burt til vandalausra; en — eg veit ecki hvernig því var áháttad, — hann hafði enga elju á að læra nockud.

Nikól. Enga elju? hm!

Jad. Af því, sem honum var kénnt, og hann faðir hans sagði honum til í reikníngi og ødru, af því lærði hann svo lítið, sem eckert, þeß á milli eyddi hann nærri ølíum tímanum með slángsi og ærslum híngað og þángað.

Jón. Það var dáfallegt!

Jad. Hann ætlaði einusinni að verða Kaupmaður, og nú var mál til komið, að setja hann til kénnslu hjá einhverjum; Kaupmaðurinn, sem hann var sendur til, ætlaði og að leggja alla rækt við hann, og hafa hann fyrst við skriftir, svo hann venjast mæði þeßháttar hlutum, sem dugandis Kaupmaður þarf að vita og kunna; en meinti þó fyrir víst og gjørði ráð fyrir, að hann mundi þegar heima fengið hafa þá þeckíngu á reikníngi og skrift í dønsku, sem hverr kaupmanns-drengur þyrfti fyrst á að halda. Hann skipar honum því til reynslu

reynslu ad skrifa bréf á dønsku til einhvørs Kaupmanns í Kaupmannahøfn, og draga reikninginn hans út úr bókinni, skildi sídan vid hann aleinann. Þarna sat nú Flosi tetur, og var ad tanna á sér neglurnar, og bíta sig í handar-bøkin, þar hann vissi eckért hvørnig hann ætti nú ad ad fara. Hvørki gat hann komid þessu edur hinu fyrir sig; hann átti engann kost á því, og komst þess vegna í allra mesta rádaleysi. Þá fór hann ad hugsa til baka úti sín úngdóms ár, sem hann sóad hafdi burt til ónýtis, og andvarpadi hástøfum: "Ach! "hvørsu vitstola manneskja hefi eg þó ver"id ad hagnýta mér ecki betur enn svo tæki"færin, sem mér budust, til ad læra nock"ud! hvad ætla verdi af mér?" Í því hann mælti þannig, lamdi hann knefanum í ennid á sér, allt eins og hann vildi straffa sig sjálfann fyrir þad, ad hann ecki hefdi verid ástundunarsamari fyrrum. Nú, segid mér: í hvada géds-hræríngu mun sálin hans þá hafa verid?

Nikól. Í hrigdar géds-hræríngu.

Fad. Og af hvørju mun hún þá helst hafa fundid til þessarar hrigdar?

Nikól. Af því, hann hafdi verid svo hiskinn.

Fad. Það er þá af því, hann ecki hafdi gjört eitthvad eins og skyldi?

Nikól. Já!

Fad. Nú, viljid þid vita, hvad þvílík hrigd er kollud, sem madur fær af einhvorju því, sem hann ecki hefir gjört vel, edur eins og skyldi? — ángurs géds hræring.

Þidr. O! þessi géds-hræring, er þó ecki eins hrylliieg, sem þær fyrri!

Fad. Hún er mjøg nytsom sinnis-hræríng fyrir þann, sem einhvørntíma gjørt hefir eitthvad ránglega; og þó væri helst óskandi, ad allir væru sífeldt fríir fyrir henni.

Jón. Af því madur verdur fyrst ad hafa gjørt eitthvad illt, ádur enn hann fær fundid til ángurs fyrir þad!

Fad. Rétt! eg vildi þid þyrftud því aldrei læra ad þeckja þessa géds-hræríngu edruvísi enn af søgunni hans Flosa.

Gudm. O! vid skulum hafa gát á ockur!

Matth. Hvørnig fór þá framvegis fyrir honum Flosa ockar?

Fad. Þegar húss-bóndi hans kom inn aptur, sá hann, ad hann alls eckért hafdi gjørt af því, sem hann hafdi sett honum fyrir, og þad, sem hann furdadi mest, var, þá hann heyrdi, ad hann enn ecki skildi hid.

allra

allra minnsta af því. Hvad átti hann nú ad gjöra, vid hann? til skrifta gat hann ekkért lid hast af honum, og annad hafdi hann ecki til ad fá honum ad sýsla. Hann mælti því vid hann: ad hann yrdi láta ser lynda, ad fara heim aptur til ad læra fyrst eitthvad, ádur enn hann ætladi sér ad verda Kaupmadur. Svo hlaut hann þá ad taka plögg sín saman, og reisa heim aptur.

Jón. Pad hefir víst verid snotur sýn fyrir foreldrana hans, er hann kom svo-búinn heim aptur!

Jad. Pid megid geta því nærri! — og hvad áttu þau nú ad taka til bragds vid hann? vinnu vildi hann ecki læra, Enginn vildi sjá hann, enginn taka hann. Loksins gátu þau med mesta kostnadi komid honum fyrir hjá valinkunnum bónda, sem átti ad venja hann vid vinnu, kénna honum ad lesa og skrisa, med úngu piltunum sínum, því hvorugt þetta kunni hann, svo kunnátta heita mætti. Hvílík vanvirda fyrir hann svo gamlann!

Sinn. Ætla úngu sveinarnir hafi ecki hendt gaman ad honum?

Jad. Svo var mælt! þeir fyrdudu sig á, ad sjá únga Kaupmanninn um-mind-

ast þannig allt í einn í skóla-dreng aptur; "Sjádu!" sögdu þeir hvörr vid annann, í því hann var kominn af baki á hladinu, "er "þad ecki sá, sem ætladi ad verdá Kaup-"madur í Reykjavik í sumar?" já! já! ansadi hinn, "hann er þad! sami er mad-"urinn, dá-fallega hefir þad farid úr horf-"inu fyrir honum, fyrst hann er kominn "svo fljótt aptur!" Jlosi heyrdi þenna hraklega dóm um sig, og þad var eins og einhvörr hefdi rekid flein í hjartad á hon-um. Varla gat hann litid uppá nockurn mann, svo fyrirvard hann sig. Þid skil-jid nú í hvada geds-hræringu sálin hans hefir þá verid?

Jón. Hann skammadist sín.

Jad. Rétt gétid uppá! hans sála var í Skammfeilnis geds-hræringu, hvad ætla þad sé med ödrum ordum?

Jón. Hann var hriggur af því, hann var hafdur ad adhlátri.

Jad. Ellegar, hann sá sig vera fyrir-litinn. — Þetta er líka, eins og þid gétid nærri, engin þægileg tilsinníng. — Já! ef hans samvitska hefdi sagt honum, ad hann ynni ecki til fyrirlitíngar af ödrum, þá hefdi fólk mátt segja hvad þad vildi, þad

mundi

mundi ecki hafa fengid svo mikid á hann. En ad vita þad uppá sig, ad madur verdskuldi annara forakt, þad tekur uppá hjartad! — gætid yckar því einnig fyrir því, ad þid aldrei hafist nockud þad ad, sem med réttu gæti gjørt yckur fyrirlitlega. Ef þid hafid nú grandgæfilega tekid yckur vara fyrir því, og einhverr kynni þó sá ad finnast, sem tæki þad fyrir sig, ad tala illa um yckur, þá verid samt óqvídnir, enginn rádvandur madur mun til lengdar trúa rógi og baktali, og innan skamms mun svívirda sú hitta baknagarann sjálfann, sem hann leitadist vid ad koma uppá yckur ad raunalausu. — Nú, í þetta sinni skulud þid segja mér til í red. Þidrik, byrja þú fyrst!

Þidr. Vid lærdum fyrst í qvøld ad þeckja Agirndar gèds-hræringuna.

Fad. Og í hvørju er þá þessi sinnislidan innifalin?

Þidr. J því, ad madur hefir girnd til audlegdar, þó ecki til ad brúka hana nytsamlega, heldur einúngis til ad ega hana.

Fad. Agætt! — nú, Jón litli! meira!

Jón Þá kémur, Ærugirndar gèdshræringin, sem innifalin er í girnd til hrósunar.

Fad. Gott er þad líka — Nikólaus!

Nikól. Þá er Angurs geds-hræríngin.

Fad. Og hvad ætla hún sé?

Nikól. Hún er hrigd af því, ad madur hefir eitthvad illa gjørt.

Gudm. Nú eg! er ecki satt, Fadir gódur!

Fad. Jú! — einúngis fljótt!

Gudm. Skammfeilnis geds-hræríngin, er í sama máta hrigd af því, þegar madur er fyrilitinn af ødrum.

Fad. Ágætt! — látid yckur vænt um þykja, børn gód! nú erum vid fyrst um sinn, búnir med hina hryllilegu sálar sjúkdóma. Á næstu samfundum skulum vid aptur tala um eitthvad skémtilegra efni!



## Fjórtánda Samtal.

Matthías. Í qvøld sjáum vid Ydur aptur ofur hýrann í bragdi, Fadir gódur!

Fad. Þess er øll von, því eg hefi rétt núna verid ad hugsa útí yfrid gledilegt efni!

Matth. Utí hvad þá?

Fad.

Fad. Vissi eg víst, þad fengi yckur allt eins mikillrar ánægju, sem mér, þá skyldi eg tala um þad vid yckur í qvøld,

Allir. Ojá! ójá! besti Fadir!

Fad. Nú, vitid þá børn mín! ad eg var rétt núna ad þenkja um minn og yckar dauda, sem máské innan skamms beri ockur ad høndum.

Jón. Innan skamms!

Fad. Já! hvørr veit! eg var, sérílagi ad þenkja um þad: ad eins og hún módursystir þín, sem fyrir skémstu leit rétt hress og heilbrygd út, deydi svo skyndilega á nærstunni, svo gæti vidlíka farid fyrir ockur. Eg setti mér þá rétt lifandi fyrir hugskotssjónir, ad minn, edur yckar líkamir, kynnu máské innan fárra vikna, edur fárra daga jafnvel, ad liggja daudt ná í kistunni, og verda þar eptir grafnir nidur í jordina, til ad uppetast þar af mødkum

Pidr. Þetta er, ad vísu eckért þægilegt efni!

Fad. Ad sønnu ecki þetta; þad er hvørki þægilegt né heldur óþægilegt, med því daudur líkaminn veit alls eckért af því, finnur alls eckért til þess, sem vid hann er í frammi haft. En þad, sem af því leidir, þad, sem

þá kémur fram vid oss sjálfa, — eg meina sálina ockar, — þad er þad, sem þægilegt er, þad er þad, sem eg var núna ad hugsa um.

Gudm. Hvad ætla þá komi fram vid sálina ockar?

Fad. Hvad kémur fram vid hana? spyr þú! rétt allt hid sama, sem vid kál-orminn framkémur, þegar hann kastar því enu ljóta hýdi, og flýgur út frá því, ordinn ad fidrildi; haldid þid ecki, ad fidrildid gledjist af því, er þad finnur sig allt í einu ordid svo léttfært, allt í einu ummindad, og ordid nú miklum mun ásjálegri, mun lystugri vera, svo þad gétur nú flegt hringinn í kríng um þúsund fegur blómstur, og druckid hid sæta húnáng af bikurum þeirra, en ádur skreid þad dauft og seinfært einúngis á einu bladi til ad naga um þad! og haldid þid ecki, kál-ormurinn mundi þegar fyrifram gledja sig af voninni, ef hann fengi sjed fyrir þessa um-mindun sína.

Jón. Jú! gátulaust.

Fad. Nú! og eg, sem med fullri vissu veit, ad lángtum merkilegri, lángtum veglegri um-mindan liggur fyrir mér, þegar líkaminn deyr, eg skyldi þó ecki med gledi hugsa fram á þann tíma, á hvörjum þessi um-mind-

mindan mun koma fram vid mig? eg skyldi ecki fagna því, ad eg fæ ad koma til þess stadar, sem enn er miklum mun fegri, enn þessi hin frída jørd; og hvar eg mun finna aptur alla ena burtsofnudu vini mína, til ad vera farsæll—já, eilíflega farsæll ásamt þeim.

Jón. Já! en af hvørju veit madur þá til vissu, ad sálin deyr ecki med líkamanum, heldur lifir eilíflega?

Fad. Af hvørju veit madur þad, spyr þú?—manstú nú ecki lengur, hvørr þad er, sem kénnt hefir oss, er kristnir køllumst, ad þeckja þenna huggunar-ríka sannleika?

Jón. Ojú! þad er Jesús Kristur; en eg ætladi einúngis ad segja: hvørnig þeir, sem ecki eru kristnir, gætu vitad, ad þeirra sálir væru ódaudlegar?

Fad. Eg þarf ecki annad enn benda þér til vísts manns, sem lifdi laungu fyrir Krists fædingu, þarna er mindin af honum á bréfinu, sem hángir þarna á þilinu. Af henni gétur þú sjálfur sjed og þeckt, hvørnig Spekíngar og merkis-menn í fornøld, hafa farid ad því, ad sannfæra sjálfa sig um þenna mikilvæga sannleika. Líttú á þarna! skodadú!

Jón. Aha! þad er karlinn hann Sócrates.

Fad.

Fad. Af hverju veistú þad?

Jón. Af því Pér hafid bædi sýnt mér svo opt mindina hans þarna, og líka sagt mér svo margt og mikid um hann, einkum þegar hann sat í fangelsinu, eins og hann er máladur þarna á bladinu.

Fad. Rétt! hann er þad. — Hvad sýnist þér hann Sócrates sé ad gjøra hérna?

Jón. Hann situr, og er ad hugsa úti eitthvad.

Fad. Hvad helst þá, heldur þú?

Jón. O! eg man þad, Pér hafid sagt mér þad! hann er ad hugsa um sálarinnar ódaudlegleika.

Fad. Rétt! — Sócrates komst þá einúngis fyrir Eptirþánka ad raun um þad, ad sálin sín væri ódaudleg; og hvad hyggur þú þá, hann hafi hugleidt um þad?

Jón. Hverr getur vitad þad.

Fad. Til allrar hamingju, hefir einn af hans lærisveinum skrifad þad allt upp, sem hann gjørdi og taladi þá sídurstu dagana, sem hann lifdi; og af því saun vid sjed, hvernig hann fór ad því, ad sannfæra sig um sinnar sálar ódaudlegleika.

Jón. Hvernig fór hann þá ad því?

Jad. Eg hefi sagt þér, hvernig fór fyrir honum, líka og, hvérsu vel og all-þarflega hann lifdi. Nú sat hann þarna í fángelsi, hvar hann bída átti daudans, sem hann lída hlaut, sakir þeſs góda er hann gjørt hafdi. Þá þenkti Sócrates nærfeldt á þeſsa leid: „Gud er ad vísu hinn allra besti og réttlát- „asti, hann umbunar því án efa allt gott, og „straffar allt illt: Hinar fávísu manneſk- „jur vilja myrda mig fyrir þá skuld, ad eg „hefi gjørt svo mikid gott, sem mér var unnt. „Þetta gétur enganveginn þócknast gódum „Gudi, því hann er réttlátur; og med því „hann er svo gódur, mun hann víst láta mér „vel vegna, fyrst eg líd hlýt saklaus; en ef „sálin mín dædi undir eins og minn líkami á „ad deyja, þá gjæti Gud ecki framar látid „mér lída vel, af því eg væri þá ecki lengur „til. Mín sála mun því vissulega ecki dey- „ja útaf med, hún mun víst halda áfram ad „lifa, eptir þad líkami minn druckid hefir „af eitur-bikarnum; Guds gædska er mér „fullvedja fyrir því."

Jón. Já! þad er og satt; ef sálin hans hefdi dáid útaf med, þá hefdi Gud ad vísu ecki framar gétad umbunad honum!—en—hafdi Sócrates engar adrar ástædur, af hver-

hvørjum hann gat vitad, ad sálin sín væri ódaudleg?

Fad. Ymislegar ástædur hafdi hann. En í stadinn þess ad skíra yckur frá þeim, skulum vid heldur í þetta sinn setja ockur í hans stad, og reyna til, hvert vid gétum ecki med skilníngínum ockar upphugsad einhverjar ástædur fyrir salarinnar ódaudlegleika. Imindid yckur því í þetta sinn, ad sérhvørr yckar væri dálitill Sócrates; víst mundum vid kjósa, ad sálin ockar væri ódaudleg; en hvørt ad hún raunar værí svo þad, skyldi eíngínn madur híngad til hafa gétad sagt ockur med fullvissu. Vid viljum þá reyna til hvørt ockur mundi máské audid vera, ad sannfæra sjálfa ockur um þad efni.— Hvørnig ætla vid færum nú ad? — gott og vel! — eg vil fyrst vísa yckur á veginn; þá mun sálin yckar víst verda einfær ad komast fram úr því. Segid mér fyrst: hvørnig er ástadt fyrir líkama ockar þegar hann deyr?

Jón. Hann gétur eckért hreyft sig lengur, og þar eptir fer hann ad rotna.

Fad. Rétt! hann gétur ecki hreyft sig lengur.— Þad er líklega nærfellt hid sama, sem: hann liggur grafkyrr, hann gétur alls eckért framar hrært sig.

Jón. Já! það er víst hið sama.

Fað. Þar eptir fer hann að rotna, eður verða að dupti; og hvernig gengur það til?

Jón. Jh! það kémur ódaun af honum, og úr því losnar hann að lyktum allur í sundur.

Fað. Þegar nú ódauninn fer að koma, þá munu víst einhverjar smá-agnir taka að losna burt frá honum og fljúga uppí nasirnar á ockur; er ecki svo?

Jón. Jú! svo mun vera.

Fað. Og þegar líkaminn losnar nú í sundur, eins og þú sagðir, lið frá lið, svo hljóta og víst hinir smáu partar eður agnir, sem áður héngu saman, að skiljast hvert frá öðru.

Jón Já! það held eg.

Fað. Allt það, sem kémur fram við líkamann þegar hann deyr, er þá, að hyggju minni, innifalið í þessu: að hann, í fyrsta máta, hrærir sig ecki lengur, og þar næst: að hans partar losna í sundur, eður skiljast hvörr frá ödrum; er ecki svo?

Jón. Já! sjálfsagt.

Fað. Nú vitum við þá, hvað það raunar er, sem kallast: að deyja; og nú gétum við ransakað, hvert sálin muni viðlíka géta

dáið?

dáid?—líkaminn er daudur, undireins og hann gétur ecki hrært sig lengur; því hræríngin er einn sá eginlegleiki, sem hann naudsynlega blýtur hafa, skuli hann med réttu heita: lifandi líkami. En mun þvílík hræring allt eins naudsynlega he.ra til sálarinnar lífi, svo hún hætti jafnvel ad lifa, undireins og hún væri ecki lengur hæfileg til hreyfingar?

Pidr. Hún gæti ad vísu hugsad samt, jafnvel þó hún væri graf-kyrr í sama stad.

Fad. Rétt! svo lengi sem sálin gétur hugsad, edur gjört sér hugmindir um eitthvad, er hún ætíd lifandi sál, hvort, sem hún hrærir sig, edur hrærir sig ecki. Hinn fyrsti greinar-munur er því á henni og líkamanum þessi: ad hún heldur lífi sínu, þó hún alls eckért hrærdi sig. Rennum nú athygli yfir hid sídara, sem kémur fram vid líkamann í hans dauda; þeir einföldu partarþir, sem hann samanstendur af, skiljast ad hvorr frá ødrum, edur uppleysast; gétur nú ecki farid vidlíka fyrir einføldu pørtunum, sem sálin hefir?

Jón. Ih! hún hefir alls enga parta! hún er víst einføld vera!

Fad. Þess vegna?

Jón. Þess vegna géta hennar partar ecki skilist ad, af því hún hefir enga!

Fad. Hún gétur þá ecki heldur dáid med því móti. — Hún hlýtur þá ad lifa eilíflega. — En, med gætni! ad vid hlaup-um ecki á ockur fram! — hverr hefir mú skapad sálina ockar?

Allir. Gud!

Fad. Skyldi nú sá, sem gat framleidt sálirnar af engu, skyldi hann ecki líka géta gjört þær ad engu, þegar honum þóknad-ist? og ef hann, án alls efa, gétur þad, eptir almætti sínu, hvad stodar ockur þá ad vita, ad sálin gétur ecki dáid af sjálfs dádum? Guds almætti gétur þó ad vísu gjört hana aptur ad engu.

Jón. Já! en Gud vill til vissu ecki gjøra þad.

Fad. Hvers vegna ecki?

Jón. Af því hann er svo gódur!

Fad. Þad held eg líka! þéradauk þyk-ist eg sjá enn adra óhvikula ástædu, sem mér er fullvedja fyrir því, ad Gud vilji vissulega ecki gjøra þad.

Jón. Og hver er hún?

Fad. Segdú mér nockud! þyki þér sá madur fara vel ad rádi sínu, sem í dag,

gjörir

gjørir eitthvert dásagurt snyldar-smídi, en á morgun brytur þad sjálfur í sundur aptur?

Jón. Nej! ecki þykir mér þad.

Fad. Hvad kalla menn nú þvílíka mann-eskju, sem þannig fer ad rádi sínu?

Jón. Heimskingja, ef ecki vitfyrríng.

Fad. Ad minnsta kosti mætti hann heita hverflyndur madur, er ógjørla vissi sjálfur hvad hann raunar vildi. — Nú, heldurdú Gud muni þá, hann, sem er hin fullkomn-asta vera, ætla hann muni vera svo hverf-lyndur, ad gjøra þad, er hann tilbjó í dag af engu, aptur ad engu á morgun? skyldi hann, sem gjørir alla hluti af vísdómsfyllstu orsök-um, gøta ydrast eptir þad, sem hann hefir gjört, edur vidlíkt og úngbernin, géta látid sér leidast þad smídi, er hann tilbjó?

Jón. Hverr, sem gæti leidt sér þad í þánka um Gud, hann væri nærsta ófródur um hann!

Fad. Þad held eg líka! — nú þá, ef sálin ockar gétur hvørki dáid af sjálfs-dád-um, né heldur ordid gjørd ad engu af þeim, sem hana skapadi; hvad leidir þá af því?

Jón. Þad: hún hlýtur ad lifa eilíflega.

Fad. Vel sé oss! ad vid vitum þetta! skyldum vid þá lengur géta borid qvída fyrir daudanum, sem við eigum fyrir hønd-um

um? géta qvidid því, ad umskapast úr kál-ormi í fidrildi, úr manneskju í engil?

Jón. Hvørr, sem qvidi því, hann gæti ecki verid rétt vel hygginn madur!

Fad. Edur, skyldum vid máské skélfast fyrir því, ad flytjast til þvílíks samastadar, sem er enn miklu veglegri heldur enn þessi jørd, á hvørri vér þó þegar njótum svo ómælanlega mikilla gjæda?—edur fyrir því, ad vid njóta fáum eilífrar og ævarandi sælu í samfélagi gódra og fullsælla medbrædra?— edur, ad lyktum, fyrir því, ad vid fáum þá miklum mun betur lært ad þeckja, miklum mun innilegar lært ad elska hinn óendanlega kjærleikans Anda, sem er allra vor Skapari og Fadir.

Pidr. Jh! hvørr skyldi géta qvidid því, ad verda enn þá lángtum farsælli, heldur enn hann er núna.

Fad. Fagnid því, og verid glød, børn mín gód! og þackid Gudi innilega fyrir þad, ad hann hefir nú þegar svo snemma látid undirvísa yckur í þessari fagnadarsælu þeckíngu, já! gêfid yckur námfúsa sálu, lyst og ástundun til ad leita yckur uppfrædingar í henni, svo þid vitid nú hvørjir og hvílíkir þid erud og verda munud, og hvad mikid þid egid nú þegar Gudi ad þacka. —Tíminn

inn nálægist; og hverr veit, hvad lángt hans muni ad bída? — þá daudinn mun adskilja ockur hverja frá ødrum. Þessi munnur, sem nú er ad uppfræda yckur, mun þá ad eilífu apturlykjast, þessi hønd, er nú leitast vid ad leidbeina yckur til góds og farsællegs lífs, mun þá etast upp af mødkum, rotna og verda ad dupti. Sjálfur eg mun ecki framar verda hjá yckur, edur þeim ødrum, sem eg nú mest elska, mesta laungun hefi til ad gagnast í ordi og verki. En — vid munum fá ad sjást aptur, mínir úngu, námfúsu vinir! aptur munum vid sameinast, ad eilífu sameinast hvørjir ødrum, ef vid allir erum stødugir á einum og sama dygdanna vegi, sem leidir til eilífrar sáluhjálpar, og þad viljid þid þó ad vísu? (børnin sønnudu þessa spurníngu med tára-votum augum) — komid þá í fadminn á mér! veri þessi koss, svo sem pantur fyrir Guds alskygnu augum uppá þad, ad vid viljum framvegis kosta alls kapps um ad lifa þannig, ad vid allir fáum á ný ad sameinast í einum og sama sælunnar-stad, og Sócrates mind þarna, Sócrates dæmi, dæmi hins vitrasta og besta manns í fornøld, veri ockur til daglegrar endurminníngar þessa lofords! —



